og Gapa/ eñ lydū i burt aptur a Augabragde. Hvar fyrer/ seige eg/ ad oss þyke so lꝏngt wr verda er hñ talar uñ þetta sama Efne /seigiande. Eñ eitt sie ydur vitañlegt Elskañleger/ Ad eirn Dagur er fyrer DRottne so sem þusund Ar/ og þusund Ar so sem eirn Dagur. Eñ þeir ed þetta ecke samañbera vid Guds Fyrerheit/ þm̃ þyker so sem ad hañ tefie og sie brygdmꝏll ordeñ / so er þad og vijst / ad jafnvel þott ad bæde St. Pꝏll og adrer lijse þvi / ad Heims Endereñ være yfer þa komeñ/1. Cor.10. þa hefur ecke Postuleñ vænt hñs so brædlega/þar hañ seiger 2. Tess.2. Þier skulud ecke skielfast fliotlega i Hugskotū ydar/nie trublast hvørke af Anda nie Orde/nie af Sendebriefe/sm̃ vier hefdū skrifad / eins z Dagur Drottens være nær þvi komeñ. Kañskie þss vegna / ad einhvør hafe teked sier Ordsøk af hñs fyrra Pistle til þra/ad skielfa veikar og Istødulitlar Samvitskur/þar ed hañ skrifar. Jeg hef ei Pørf ad skrifa ydur uñ Tijma og Hentugleika / þvi þier giørla vited/ad sa Dagur DRottens mun koma/sm̃ Þiofur a Nottu/ þegar þeir seigia: Þar er Fridur og Tryggleise/þa er þeim skyndeleg Foreidsla nærre / so sem Jood-Sott þungadre Konu / 1. Tess. 5. Latum oss þvi ecke Andvaralaust lifa/Brædur mijner/þott DRotteñ dvelie/þvi Komande mun hñ koma z ecke seinka / Hebr: 10. Eñ vier vitum ecke/ a hvørium Tijma ad hañ kiemur/ ad Kvꝏllde-Dags edur uñ Midnætte/edur þa Haneñ galar/edr snem̃a Morguns/so ad þegar hñ kiemur hastarlega/ad hñ finne ydur ecke Sofande. Þad eg seige ydur/ þ seige eg øllum/ seiger DRotteñ. Vake þier/Marc: 13. Latū ecke vora Ydran bijda epter Soolarenar Formyrkvan / þvi þegar hun allra sijdast tekur ad sorkna/mun Ydranar Tijmeñ wte vera/Nun hefur so leinge Þionad oss i Heime þessum/so leinge afmarkad tilsetta Tijma af Gude/ og bored Vitnisburd uñ hañs Vitsku/ hañs Dijrd/ hañs Giæsku og hañs Almætte/so leinge hefur hun skined yfer Ogudlegañ Heim þeñañ/so leinge uppruñed yfer Rænglæta z Riettlæta/ad aller hafa haft noogañ Tijma til ad ydrast/ og leita Guds ædur eñ þ sijdarsta Myrkur byrger heñar fagra Lioos/so hun mun uppþadañ alldrei

ad

ad Silkſu ſkijna. Hun hefur alldrei fra Veralldar Upphafe formyrkvaſt a mööte Natturunnar Edle/ nema ollu Einu-Sinne/ þegar Himenn z Jord byrgdu fyrer Augu ſier/z ſo ſem ſkielfduſt vid ad horfa þar a/ad Þra Skapare var eins z ein Bolvan a Kroſſenn uppheingdur/Matth: 27. Enn ef hin Natturlega Soolenn miſte ſijna Byrtu af þvi/ad Sool Riettlæteſins formyrkvadeſt umm Stundar ſaker. Hvad er þa ad undra þott hun alldeilis blind verde/ þegar hann kiemur i Skijum Himens med hans heilogu Þuſundum/ Judæ Piſt. v. 14. Ja/ þegar þeir munu fyrer hinn hærſta z ſijdaſta Riett kallader verda/ſem Konung Dijrdarennar hafa ad nyju kroſſfeſtann/og Sattmalans Blood almennelegt hallded/med hvoriu þeir helgader eru/ Hebr. 10. Lat þier þetta jafnann fyrer Augum vera / Syndugur Madur / þegar þu ſier hid bleſſada Heimſins Lioos / ſem alla Verolldena upplijſer / þu ſier hana i Dag upprenna/þacka Gude þar fyrer/enn þu veitſt ei hvort hun nu mune ſijnu veniulega Takmarke ad Kvollde Dags/ þu ſier hana i Ægenn ganga/og ad Tungled og Stiernurnar taka aptur ad lijſa/enn þu veitſt ecke nema a þeirre ſomu Nootti renne upp Jacobs Stiarna Chriſtur/ Num. 24. annad Sinn / ſem bæde Sool og Tungl mun formyrkva og ad aungvu giora / og Stiornunum af Himne ofann ſteipa / ſo ſem þa eitt Fijkiutrie kaſtar ſijnum Avoxtum fra ſier/nær þad hriſteſt af Stormenum. Lat þar fyrer Soolena ecke underganga þijna Vondſku/ Trw ecke ſo Natur Myrkrunum fyrer þier / ad þu minneſt ei vid Sonenn / a medann þu ert enn a Veige med honum / ſo ad hann verde þier ecke reidur / Pſalm. 2. Ef kannſkie hann byrteſt i Skijum Himenns a þeirre ſomu Nootti. Haf þinn Lampa tendradann/ſem er Lioos Trwar þinnar/ad ei verder þu vtelokadur/ þegar Brwdgumenn kiemur umm Midnætte/ Matth. 25. Hlijd Bode Peturs er hann ſeiger/ 2. Pet. 3. þar fyrer Elſkannleger/þar þier bijded epter ollu þijſu/þa koſtgiæfed ad þier hreiner og Oſtraffannleger af honum fundner verded/med Fride og hallded Seinlæte Drottens til Reidennar/ ad vera Hialpræde. Enn hyggium ad þvi/hvorſu ad hann mun Obærelega ſtrangur og hardrædur

ur verda øllum Gudlausum og Þverbrotnu͂/er sier hafa a Nædartimanum Reide safnad. Hañ mun ei koma so sem fordum Daga/liggiande i einum Stalle/ecke so sem þier heyrdud Fyrra Suñudag/Sitiande a Asnu/og a Fola klifbærrar Asnu/Matth. 21. Ecke so sem hñ var utleiddur af Þijnghwse Pilati/berande eina Purpura Kapu z Þyrne Koronu / Joh. 19. Eñ þeir ed allt þetta hafa ad aungvu haft / þeir munu sia hñ so sem eirn strangañ Doomara. Elldureñ breñur fyrer hañs Auglite allt til nedsta Helvijtis / Devt. 32. J hønum munu Himnarner sundurgliðna/ og Høfudskiepnurnar smelltast/ 2. Pet. 3. Kríngum hañ mun geysa eitt hrædelegt Stormvidre / Aller hañs megtuger Einglar munu hønu͂ fylgia/ og hñs heiløgu Þusunder umhverfis hñ skijna/mz skielfelegre Høfud-Eingelsins Basunu mun hñ kalla Lifendur og Dauda i Lopted upp til mots vid sig/ 1. Tess. 4. og eingeñ Skiepna mun standast hñs Tilkomu/ Mal. 3. Þa mun Sool eñ Formyrkvast/ af þvi ad Guds Forsmanarar geingu formyrkvader i Huxunum søkum þeirra Þeckingarleysis / vegna Hardwdar þeirra Hiarta / 2. Tim. 3. Þa munu Kraptar Himnaña hrærast / af þvi þeir hafa so lijtt syndgad i Himeneñ/og forsmæd hñ sem i Himnenum bijr/þa mun verda a Jørdu Angist og Rædleysa Þioodaña/so sem þa Stoor z Bylgiur hliooda/ siñ vite þær ecke hvar þær eige ad falla edur hvad af sier ad giøra/þañeñ mun allt Hollo verda i Tilkomu Drotteñs. Þegar Jeremias spaer um Babilons Eydeleggingu/þa dunar hñ so sem eitt Reidar-Slag a þeñañ Hatt / Þeirra Bylgiur munu dynia/ þeirra Raddar Hlicod mun verda so sem mikilla Vatna / Jer. 51. Eñ hvad miklu meira mun verda Øskur hiñar stooru Babilon Veralldareñar / þegar hun hrapar i Dijked þad / sem vellur af Ellde og Breñesteine/ Apoc. 21. med øllum þeim sem drukner eru af Vijne heñar Hoorunar/ Apoc. 17. O/hvørsu hrædder munu þa þeir ed smæd hafa hiñ fatæka JEsum og hañs Limu/i Velmagt siñe hier a Jørd uñe/ hvørsu giarnañ munu þeir þa vilia hafa sadt hañ / þegar hañ hwngradur var/svalad hønum/er hañ þyrstur var/hijst hñ/þegar hñ

Giestur

Giestur var/klædt hñ/ þegar hñ nakeñ var/vitiad hañs/ þegar hñ var siwkur og i Myrkva-Stoþu / Matth. 25. Hvørsu lýted munu þeim gagna þa Metord þau/ er þeir keyptu fyrer Guds Vinattu. Epterlæte Heims þſſa/ er þeir møttu framar eñ Drottens Kross/ Eigner og Bwgardar/ fyrer hvøria þr selldu Sæler sijnar. Sveite Daglaunaranñs/ er þr hafa iñehallded/ Hws Eckiuñar og hiñs Fodurlausa/ er þr hafa wtsoged/ Braud hiñs Einfallda & Naudstadda/ er þr hafa svikied under sig med Okre & Rangsleitne. Hvad lýted mun allt þtta duga þeim/ nær Verølldeñ og øll heñar Dýrd og Hoffrakt stendur i biørtu Bale. Eñ hiñ Riettlæte Himeñs & Jardar Konungur vill seigia upp Doomeñ med þſſu skielfelega Atkvæde. Fared fra mier bølvader i eylýfañ Elld/ sem fyrerbweñ er Dioflenū og øllū hñs Arum/ Matth. 25. O DRotteñ vor Gud / hvørsu mun hañ þa Ognarlegur verda i Augū Fordæmdra Mañа/ er ecke eiga framar neinnrar Nædar von? Manoha og hañs Kviña sau Guds Son/ er hañ stie upp i Foornar-Elldenum / og hañ meinte þau mundu þar fyrer deyia / Jud. 13. Esajas/ sa Gud sitiande a haum Stoole/ og hønum fiellst Hugur / so hañ sagde: Vei mier/ eg mun upprættur verda/ þvi eg hefe saurugar Varer/ & bý a medal þſſ Folks/ er saurugar Varer hefur/ þar eg hefe sied Drotteñ Allsheriar Konung/ Esa. 6. Israels Syner beiddu Moisen ad ganga uppa Fialled og tala siña vegna vid DRotteñ / Exod. 20. Þegar Guds Reider stoodu i Horeb/ og søgdust eige framar gieta heyrt Raustina DRotteñs Guds siins. Daniel sa Christū vid Fliotsed Chid-Dekel/ og þar var ecke Mattur i hønum/ øll hñs Fegurd umbreittest / so hañ hafde aungva Krapta / Dan. 10. Læresveinarner urdu Ottaslegner/ er hañ kom til þeirra ad lycktum Dyrum/ Luc. 24. Þesser voru þo aller Guds Viner / þeim birte hañ sig i Nad siñe og Giædsku/ þo kuñe ecke Breiskleike Holldsins ad standast Nalægd Guddomsins/ hvad mun þa vid Ovine Drottens skie i Doomenum? Þegar hañ wtheller þeirre Reideñe i einu Augnablike/ sem þeir hafa safnad sier a Reideñar Dag Mañ epter Mañ um alla Æfe. Þegar Josua hiñ ypparste

ypparſte Kiennemadur ſtood fyrer Eingle þſſ mikla Raads/ z Andſkot-
enn honum til hægre Handar/til ad motſtanda honum i Jeruſalems Bygg
ingu/ þa ſtood hann i ſaurugum Klædum/ þar til DRottenn took hans
Rangklæde fra honum/ Zach. 3. og var þa Guds Sonur hans Tals-
madur. Enn hvørnenn munu aller Gudlauſer verda/ þegar þeir ſtanda
fyrer Doomara alls Hollds/ þegar Gud ſialfur aklagar/enn eingenn af-
ſakar/ þegar Rangklæted ei framar verdr burt teked/ helldur tilreiknad?
Þeir munu ſtanda Skømmenne Jklædder / Pſalm. 109. Og umm Allder
Allda wtrekner fra hinne Himneſku Jeruſalem/ Apoc. 3. Johannes ſeig-
er/ Þeir drecka af Víne Guds brennande Reide/ z kveliaſt mz Elldе z
Brenneſteine i Auglite heilagra Eingla z Lambſins/ Apoc. 14. og þr
munu aungva Ro hafa Noott nie Dag/ þeir munu eta Tungur ſÿnar
wt af Opraun / og laſta Gud Himenſins wt af Kvøl og Sarendum
ſÿnum/og þeir munu Daudans Oſka/og hann mun fra þeim flÿa/ A-
poc. 9. J øllu þeſſu faa þeir ecke eirn Dropa Vatns til ad kiæla med
Tungu ſÿna/ Luc. 16. Þetta er ad ſønnu Ognarlegt ad heyra/ Bræd-
ur mÿner / enn þad er þo Guds Ord ſem ecke kann ad liwga/ enn ef þad
kann ad ofbiooda nockrum ad heyra alleina/ hvad mun þad þa vera ad ſiaa
og reina/ ecke hefur Guds Ande forgiefens talad þtta/og ſo ſkÿrlega
uppteikna lated/eckert af Guds Ordum mun a Jørdu falla/ Himenn og
Jord forganga / enn hans Ord forganga alldrei / Luc. 21. Lat þau
þvi duga þier til þeſſ / ad þu verker þÿna Saluhialp med Vgg og
Otta/ Phil. 2. ad ei komer þu i þennann Kvalaſtad/ edur ſiert varbw-
enn vid hinum ſÿdarſta Deige/ ſem þu ecke veitſt nær ad þier uppren-
ur. Hugleid chriſtenn Madur/ hvad JEſus ſeiger Joh. 12. Hvør
ſem forſmaaer mig/og medtekur ecke mÿn Ord/hann hefur þann ſem hann
dæmer/þad Orded ſm eg talade/þad mun dæma hn a ſÿdarſta Deige.
Vert þvi ecke Vgglaus edur Ohræddur Barn Guds / þegar þu ſitur
under Heyrn hans Orda/þvi þar er þinn Doomare/ þad mun a hinum
efſta Deige uppſkatt verda/ hvørnenn þu hafer epter þvi teked/hvørnenn
þu hafer epter þvi lifad/hvørſu fws þu hafer vered a ad heyra þad/
hvad

hvad vandlega þu hafer mz þ hondlad/i hvad goodu z sidsomu Hiarta þu hafer geimt þad/hvort þu hafer fært þar Avoxt af i Þolenmæde / Luc. 8. Allt þvilijkt verdur bert þegar Bækurnar verda upplætnar i Doomenum / Apoc. 20. Og epter þvi muntu dæmdur verda. Þvi so seiger Paulus / Ad DRottenn mune dæma leynda Hlute epter sijnu Evangelio a sijdarsta Deige fyrer Christum JEsum/Rom. 2. Seig mier/ Barn DRottens. Munder þu þora ad forsmaa þann/er ætte ad dæma um Lijf þitt edur Æru/edur svara honum fullum Hælse/sierdeilis ef þu þig sekann visser/og þier uggvænt þætte/ ad þu munder falla a Mælinus? Þad þorer eingenn ad giora. Ecke eru Dæme til þess/ad nockur hafe so bited Nofuded af Skommene. Enn þad þora Menn ad seigia/ad Prestar seige so margt/þ sie ecke allt satt/jafnvel þott þeirra Embætte sie DRottens/ z þeirra Verk/ þeirra Guds/ Esa. 49. Þetta voga Menn ad seigia z hugsa under Heyrn Guds Orda/sem eiga ad dæma þa a sijdarsta Deige. Veitstu ecke sagde Pilatus/ad eg hefe Valld til ad Krossfesta þig/ og Valld til ad læta þig lausann/ enn hann laug/þvi hann hafde eckert Valld yfer hinum Alvallda Konunge/nema honum hefde vered giefed þad af Himnum ofann. Enn Christur hefur til þess Valld i hans heilaga Orde/syndugur Madur/ad fordæma þig ef þu kastar þvi a Bak þier aptur/og so til ad læta þig lausann/ef þu hlijder þvi. Hvar fyrer læta Menn þa hid gooda Ord Guds/ so sem Vind um Eyrunn þioota. Menn hrædast allann Voda/ enn Guds Ord ecke/ þier þyker þeim Tijma vel vared/ er þu giefur skoted þier undann þess Heyrn/og munder þar kann skie alldrei koma/nema þu meir Ottad est Mennena enn Gud/ Enn muntu z gieta skoted þier undann hinum sijdarsta Doome/hvar þu skallt þo af þessu sama Guds Orde dæmdur verda. Og fyrst þu villt ecke heyra Christ/þar ed hann seiger/Komed til mijn aller þier sem erfvided z þunga erud hladder/eg vil Endurnæra ydur/ Matth. 11. Þa skalltu þo heyra hann a sijdarsta Deige / hvort þu villt edr ecke/er hann seiger/Fared fra mier aller Illgiorda Menn. J einu Orde ad seigia/Þar er eingenn Hlutur sem meir ætte ad hvetia upp syndugann

Mañ til ad bwast vid Daudanū/ eñ sialft Guds Ord/ hvort hñ mun dæma/epter hvoriu hñ mun dæmast/z fyrer hvørs Forøcktun hñ mun dæmdr verda. Sie þ þier kiendt z predikad af hinū Aumasta z Vesælasta/af einū Fatækū z Lytilkuñande/hvør halldeñ er fyrer Afrak og Hreinsun Veralldar/ forsmaa þ eige ad helldur / ef þ eru Guds Ord hñ hefur i Muñe/og hñs Evangeliū/er sagde til siña Postula z allra Þrra er leitast vid ad feta i þeirra Footspor/ og hañs Vmbod a Hende hafa. Hvør sē forsmæer ydur / hañ forsmæer mig/eñ hvør hañ mig forsmæer / hañ forsmæer þañ er mig sende / Luc. 10. Ja / þoott þad sie frambored af einhvørium/sem eckert giorer af þvi hañ kieñer/ þa kañast þo þar vid/ad JEsus sagde til siña Lærefveina. A Moisis Stoole sitia Skriftlærder og Phariseæi / allt hvad þeir seigia ydur ad vardveita/þad vardveited og giored/ eñ epter þeirra Verkū skulud þier ecke giora/þvi þeir tala og giora ecke/ Matth. 23. Hvør sem nu um̄ þetta vandlega hugsar/hañ mun þess betur læra ad bwast vid þessum hrædelega Deige/med Daglegre Ydran og Afturhvarfe fra Syndum og Glæpum/ og þad þess helldur/ sem lyklegra er ad DRottens Tilkomu sie ei all langt ad byda/ þvi þoott þau Teikneñ er Lucas i þessu Gudspialle um̄talar/sieu eñ þa ecke øll fram̄komeñ/og lykast sie/ ad ei fram̄koma mune fyrr eñ under sialfañ Doomeñ / þa geingur þ eins til hier/so sē fyrer daudlegū Mañe/ad Helsootteñ er leinge ad bwa um̄ sig i hñs Lykama/ædur eñ hun flytur Lyfed af honū. So hefur og Gud opeñberad oss i sijnu heilaga Orde nockur Teikn/þau er a sijdurstu Døgum skie munu/og er Vite hiñs efsta Dooms/er vier vel meigum þeckia od vidkañast a vorum Døgum. Christur seiger/Matth. 24. Ad Evangelium Rijkesins skule predikast um̄ allañ Heim / til Vitnisburdar øllum Þioodum/og þa mune Endereñ koma. Sined hvørsu Guds Orda Doomur skal yfer alla Meñ ganga/þar eru og miøg faar Þiod er nu i Heimenū/a medal hvørra ei hefur skined Lioos Evangelij/þoll aller hafe ecke vid þvi teked / Hañ gietur um̄ þar mune verda Hwngur / Drepsoott og Jardskialftar i øllum Stodum / Matth. 24. og

kallar þad Vpphaf Normungaña / Þetta høfum vier sialfer reynt / Brædur mijner/ og er ecke langt a ad miñast / Gud giæfe vier værum þess so miñuger sem vera byriade/ ef Meñ vilia ecke oñur Teikn þeckia/ þa mætti Meñ þau vidkañast er almeñust eru/ og JEsus umgietur/ Luc. 18. Þegar Mañsins Sonur kiemur/ meinar þu hañ siñe Trw a-Jordu ? Noog er af Guds Orde/ Noog af Evangelij Lærdoome/ til Vitnisburdar yfer øllum Moñum/ Matth. 24. Eñ hvort hiñ saña Guds Otta er so vijda ad fiña / ma stoorlega efast um / edur seiged mier/ hvada Hyrtne er þ/ ad Almeñingur hefur a ad læra Christelega Trw/ edur kieña hana þeim er vid þurfa? eñ þo allra sijdst epter heñe ad lifa? Jeg hygg þad gange til eins z a Noe Døgū/ hvad z er Teikn Mañsins Sonar Tilkomu / Matth. 24. Þeir atu og druncku / þeir giptust og sig gipta lietu/ allt til þess Dags/ ad Noe gieck in i Ørkena/ og þecktu ei Floded/ fyrr eñ þad kom og took þa alla i burtu. Ja nu a þessu Døgū ædur eñ þr vita hvad Hioonaband er / edur kuña meir-eñ eitn Afne ad uppfræda Børn sijn i Christelegre Trw og ærlegum Lifnade. Þeir gieta þau epter siñe Mind / og ala þau upp epter siñe Mind/ Andskotanum til Þioonustu a stundum/ eñ ecke Gude. Eñ fyrst Trweñ er þañeñ/ þa er ei Von ad Kiærleikureñ sie betre/ so ad ræiest eitneñ þad er Frelsareñ seiger ad fram mune koma fyrer hiñ sijdarsta Dag/ ad af þvi Ranglæted vex/ mune margra Kiærleike kolna/ Matth. 24. Þetta er so vijst framkomed/ ad mig undrar þad Meñ ecke hafa gleymt Nafnenu/ þar Hlutеñ sialfañ er valla hia nockrum ad fiña. J einu Orde ad seigia: Meñ þreifa a þvi sem Paulus skrifar/ 2. Tim. 3. seigiande: Vited ad a sijdurstu Tijmum munu verda farlegar Tijd-er/ þar munu verda Meñ Siergooder/ agiarner/ Hoolsamer/ Dramb-later/ Gudlastrar/ Foreldrunum Ohlijduger/ Ohacklater/ Glæpafull-er/ Hardbriostader/ Heiptrækner/ Lausfiñader/ Ohijder/ Gott hatande/ Svikarar/ Þverbrotner/ uppblasner/ elskande meir Sælgiæte eñ Gud/ hafande Skin Gudhrædsluñar/ eñ afneita heñar Krapte. Allt þetta hygg eg ad Noe þeckia munde/ ef hañ nu mætte lijta upp af Grøf siñe/

og þad þecker hvør eirn / sa ed giører nockurn Greinar-Mun a millū Dygda og Odygda. A Døgum Noa slockte hiñ Riettlate Gud Baal Oleyfelegrar Elsku og Lostagyrndar med Vatnsfloodenu/ fyrr eñ þeir nockud af vissu/eñ nu tekur Kiærleikureñ so ad kolna/ad Niørku sumra Maña mæ stockfredeñ kalla/jæ hardare eñ Kopar og Stæl. Hvad er lÿklegra eñ ad hiñ alvitre Heimsins Smidur mune bræda þau z smellta mz hinu sÿdarsta Bæle/fyrr eñ nockurn varer? Þetta vil eg nu hafa sagt/ Brædur mÿner/ Ydrunar og Athugalausum til Vidvørunar/ eñ ecke sturludū edur ængrædum Samvitskum til Skielfingar/ øllum til Sidboota og Leidriettingar Lifnadareñs/ eñ aungvū til Orvæntingar / þvi so sem Tilkoma hiñs mikla Guds og DRotteñs vors JEsu Christi mun hrædeleg verda øllum Ogudlegum Møñum/so mun hun gledeleg verda øllum þeim er a hñ vona/og heñar med Þoleñmæde bÿda. Þad kieñer oss St. Pæll/2. Tess. 1. seigiande: Þad er Riett vÿst fyrer Gude/ ad endurgiallda þeim Þiæninguna er ydur þiæ/ Eñ ydur sm̄ þiæest Endurnæringu medur oss/þegar Drotteñ JEsus opeñberast af Himne med sÿnum megtugum Einglum. Ad søñu byriar oss øllum ad mæta fyrer Doom-Stoole DRotteñs / 2. Cor. 5. og þar Reikning ad standa / jafnvel af hvørju Onitiu Orde/ i Doomenum / Matth. 12. Eñ þad er Ohult ad mæta fyrer hañs Doome / sem sialfur er Talsmadur siña Barna. Sa fer ecke sekr af Þÿngenu/sm̄ sialfur a ad dæma/ Eñ nu eru aller Trwader eitt med honum/so sm̄ hañ og Fadereñ eru eitt / Joh. 17. Og hañ er Høfud Lÿkamañs / sem er Christeleg Kyrkia/Eph. 1. Þad er og indællt ad standa hønum Reikning / sem sialfur hefur betalad fyrer alla Skulldena/ Þar fyrer seiger JEsus/Joh. 3. Sa sem trwer a Soneñ/sa dæmest ecke. (hvar Doomsins Ord merker Fordæming) Og aptur seiger hañ/ Sa sem heyrer mÿn Ord/z trwer honū er mig sender/hñ hefur eilÿft Lÿf/ og hñ kiemur ecke i Doom/(þad er i Fyrerdæming)helldur fer hñ fra Daudanum til Lÿfsins / Joh. 5. Þvi skylldu þa Guds Børn fælast hiñ sÿdarsta Dag? Mun ein Brwdur ottast sÿns Brwdguma Til-

komu/

komu/og ecke helldur a allar Lunder bwa sig til ad fagna honū? Mun eitt Barn fela sig fyrer sijnū Fodur? Eñ so sm̃ Fadereñ er Bornunū lijknsamur/ Ps. 103. so vill hiñ eilijfe Fader z Fridar-Hofdinge Es. 9. vera oss nædugur a þeim Deige. Þar fyrer seiger hañ og i þessa heilaga Dags Evangelio. Eñ Nær þEtta TEkur Ad SKie/þa lijted upp/ og upphefied ydar Hofud / af þvi ad ydar Endurlausn er Nælæg. Þad er sem hañ segde: Þier skulud ecke leingur nidurlwter ganga/af þeirre Sorg er þier hafed i Heimenum/ þvi þa skulud þier i mier Glede hafa/ Joh. 16. Þier skulud ecke leingur stynia med sialfū ydur / bijdande epter Arfleidsluñe sem er Endurlausn ydar Lijkama / Rom. 8. þvi hun er þa nælæg. Þier skulud ei leingur kveliast i Fang else þijssa daudlega Lijkama/ þvi þetta er Dagur Endurnæringareñar/ Act. 3. Dagur Endurfædingareñar/ Matth. 19. Dagur Endurlausnareñar/ Eph. 4. Dagur Endurnijungar allra Hluta/ þa munud þier ecke framar syrgia þa Guds Mind er þier i Adam topudud/ þvi þier munud sia i Skijum Himeñs hiñ añañ Adam / sem er DRottiñ af Himne / 1. Cor. 15. Og þo Holld af ydar Hollde / hvør ad er ydar Broder / og þo ydar Doomare / ydur ad ollu samlijkur / Ebr. 2. ad Syndeñe fra tekeñe / Eñ þo J-mind sijns Fodurs Dyrdarfullrar Personu / Ebr. 1. Hvør ydar forgeingelega Lijkame mun forklæra og samlijka giora sijnū dyrdlegū Lijkama/ Phil. 3. Lijted upp þier sem leinge hafed leitad ad þvi sem þar uppe er/ Col. 3. þa skulud þier þad finna. Vpphefied ydar Hofud/ sem æsamt allre Skiepnuñe hafed med wtriettu Hofde/ beded epter ydar Endurlausn / Rom. 8. og siaed ydar Hofud komanda i Skijum Himens. Lijted upp þier sem med Ahyggiu hafed leinge þrad epter hiñe himnesku Jerusalem / Gal. 4. sem þar uppe er/ og gæanged nu iñ i hana/ þa muñ DRottiñ seigia: Komed þier sem nakter erud / eg mun gefa ydur hvijtañ Skrwda og fæ Palmavid i Hendur ydar. Komed þier sem þyrster erud/ eg mun dryckia ydur af Straumum lifanda Vatns/ Joh. 4. Komed þier sem hwngrader erud/eg mun metta ydur af nægdar Giædum Guds Hwss/

Ps. 36. Komed þier sem Erfided og Þwnga erud þiáder/ eg mun end urnæra ydur/ Matth. 11. Komed þier sem sijted og græted / eg mun þerra øll Taar af ydar Augū/ Apoc. 7. Komed þier sm̄ bored hafed mitt sæla Ok/ og mijna lietta Byrde/ eg vil ydur endurgiallda med eylijfre Þijngd Dijrdarenar / 2. Cor. 4. Komed þier sem reiknader erud fyrer Afrak og Hreinsun Veralldar/ eg vil setia ydur til Bords med Abraham/ Isaac og Jacob/ Matth. 8. Jaa/ Komed blessud Børn mijns Fodur/ og eignest þad Rijked/ sem ydur er fyrerbwed fra Uppħafe Veralldar/ Matth. 25. Kom O Herra JEsu/ kom og iñleid oss i þetta Fagnadarsæla Lambsens Brwdkaup og þijna Dijrd/ þu sem lifer og rijker ad Eylijfu/ A M E N.

# Þridia Suñudag i Adventu.

Gudspialled/ Matth: 11. Cap.

V þañ Tijma. Eñ þa ed Johañes heyrde i Bøndunum Verkeñ Christi/ sende hañ wt tvo af sijnum Læresveinum/ og liet seigia hønum. Ertu sa sem koma skal/ eda eigum vier ad vænta eins añars? JEsus svarade og sagde til þeirra: Fared aptur og kuñgiøred Johañi hvad þier siaaed og heyred. Blinder faa Syn/ Hallter ganga/ Lijkþraaer hreinsast/ Dauffer heyra/ Dauder upprijsa/ og Fatækum verda Gudspiolleñ bodud/ og sæll er sa sem ecke hneixlar sig a mier. Eñ ad þeim i burt geingnum/ hoof JEsus ad seigia til Folksins af Johañe. Hvad foorud þier wt a Eydemørku ad siaa? Reyr þañ sem af Vinde er skiekeñ? Eda hvad foorud þier ad siaa? Mañ Miwk-klæddañ? Siaaed/ ad þeir sem miwkañ Klædnad bera/ eru i Kongaña Hwsum/ Eda hvad foorud þier ad siaa? Eirn Spaamañ? Eg seige ydur fyrer Sañ / þañ meire er eñ nockur Spaamañ/ þviad þesse er sa/ af hvøriū skrifad er. Siaa þu ad eg sende miñ Eingel fyrer þiñe Augsijn/ sa er þiñ Veg skal tilreida f. þier.

## Exordium.

Hvørsu

Hvørsu stoor ad sie Myndugleike heilagrar Ritningar / Þad kienner oss best allra DRottens JEsus/ er hann sagde vid Gydinga/ sem ecke villdu trwa hønum fyrer Kraptaverkenn/ er hann giørde. Rannsaked Ritningarnar/ þvi þier meined ydur i þeim ad hafa Eilyfft Lyf/ og þær eru þad / sem bera Vitne af mier/ Joh. 5. Vel hefur JEsus þetta hvørttveggia samanntieked/ ad hønndlann Eilyfft Lyf/ og ad bera Vitne af sier/ þvi þad er Eilyfft Lyf/ ad þier þecke þig sannann Gud ad vera/ og þann þu sender JEsum Christum/ sagde hann/ Joh. 17. An JEsu Vitnisburdar/ verdur eingenn hiaalpenn/ og hvør sem hann hefur og medtekur / hann hefur Lyfed i sier blyfanda / og kann ecke ad fara a Mis vid Sæluhiaalpena / þar umm vitnar St. Petur/ Act. 4. Ad ei sie i ødrum Hiaalpræded / og ad þar sie ekkert annad Nafn Mønnunum giefed under Himnenum / i hvørtu oss byrie Sæluhiaalpnum ad vera / enn Nafned JEsu Christi. Nu / þar ed heiløg Ritning hønndlar umm so mikla og vegliega Hlute / hvad kann hennar þa jafnt edur samlykiande ad kallast / af øllu þvi / er synduger Menn hafa Mæltur a. JEsus sagde vid Kvinnuna i Samaria / ef þu visser Guds Giøf / og hvør sa være / er vid þig seiger: Gief mier ad drecka / þa munder þu bidia hann ad giefa þier lifande Vatn/ Joh. 4. Enn eg vil seigia: Gud giæfe/ Menn þecktu Gud vid sig talande i heilagre Ritningu/ þa mundum vier fwsare vera ad drecka af hanns Nadar Straumum / er þar wt af flioota. Hvør hefur kiennt oss ad þeckia Gud vorn Skapara? Hvør hefur Opennberad oss hanns Vilia? Hvør hefur vysad oss Veigenn hønum epter ad fylgia? Hvør hefur upploked vorum Augum ad vier þeckium Syndena? Hvør hefur synt oss hvørnenn vier ættum ad blydka Gud nær hann reidur er og þar hennar Kvittun? Hvør hefur Opennberad oss Leindardoom Heilagrar Guddoomsins Þrenningar/ Dyrd Fødursins / Elsku Sonarens/ Astgiafer Heilagß Anda? Hvør hefur synt oss þad sem marger Konungar og Spamenn gyrntust ad sia/ og sau þad ecke? Luc. 10. Þad sem hulid var fyrer Spekingum og Vitringum / enn nu er Opennberad Smælingium? Matth. 11. Hefur ecke hinn Naduge Gud oss allt þetta auglyst / og ecke ekkert giefed i heilagre Ritningu? og sinn Eingietenn Son sinn er i hanns Skaute/ Joh. 1. Af þessare andlegu Fehirdslu Audgade Jesus Lærefveina Johannis/ þegar þeirra Meistare sende þa til hans/ ad frietta hann ad/ hvørt hann være sa sem koma skyllde/ edur ættu þeir eins annars ad vænta/ ecke i þeirre Meiningu / ad Johannes visse þad ecke sialfur / þvi hann hafde adur vid hann talad / Matth. 3. helldur til þess ad þeim hiaalpad yrde i þeirra Andlegu Fáfræde / Hvad hinn goode Meistare JEsus giørde med þvi Moote / ad hann vysar þeim til Verkanna sem af hønum giørdust / og under eins til Ritninganna sem umm Messiam spadu / og þo ad hvørt eitt af þeim Kraptaverkum sem hier standa i Gudspiallenu/ sie noog til ad vitna þar umm/ ad hann Guds Sonur være / þar Gud er alleina sa sem Dasemdar Verkenn giører / Psalm. 72. Þa er þo ekkert þeirra sem so berlega vitne umm Embætte Messiæ/ so sem þad sydarsta er hier stendur. Fraatækum Verda Gudspiallenn Bodud. Hvør Blessud Ord vier vilium i þetta Sinn oss fyrer Hendur taka/ og af þeim sierdeilis Tvenn

Nug

Hugleida. Sem er. 1. Um þa Fatæku er hier nefnast. 2. Um þad Evangelium er þeim bodad verdur/ Med þeim Lærdoomum er þar af leida.

Þu Myskunsame goode Gud / sem oss hefur med Lioose þyns Sonar Evangely/ vysad hiñ riecta Veg Sæluhiælpareñar / Vertu i Verke med oss / ad vier þetta framkvæmt giætum/ þynu Nafne til Dyrdar/ eñ oss til Eilyfrar Velferdar / A M E N.

# Utleggingen.

Fatæker/ sem hier nefnast/ eru ecke alleinasta þeir/ sem vantar Audlegd Heims þessa/ helldur z aller þeir/ sem a einhvørn Hatt eiga vid bægañ Kost ad bwa. David var rÿkr Konungur/ z hafde Aura Nægter/ þo seiger hañ/ Ps: 9. Myskuna mier/ og lÿt a Fatækt mÿna. Nu kuña Meñ þo ecke ad mootseigia þvi/ ad vor Frelsare/ a medañ hñ umgieckst hier a Jørduñe/ hefur sier i lage wtvaled hina Fatæku og Audvyrdelegu fyrer Heimenum. Sialfur var hañ i Fatækt aleñ/ hñs blessud Mooder fieck eckert añad Rwm i Giesta-Herbergenu/ eñ eirn Stall til ad fæda hañ i Heimeñ / Luc. 2. sem æ allra Hluta Vallð / bæde a Himne og Jørdu. Hañs Foostur-Fader var eirn Trie Smidur/ Matth: 13. sem nærde sig af Handbiørg siñe. Hañs Læresveinar voru Fatæker Fiske-Meñ. Flestaller þeir ed hañ umgieckst med hier a Jørduñe / voru Fatæker og umkomuliter. Skamast þyn ecke þess vegna Fatæktareñar/ christeñ Madur/ fyrst hñ hefur hana wtvaled/ sem æ þo allt Sylfur z Gull/ z øll Dÿreñ i Skoognū/ Ps: 50. Ærleg Fatækt / er heilagur Hlutur / þar hañ hefur vÿgt hana/ sem eirn er Heilagur/ z þo alleina rÿkur. Fyrerlÿt og ecke Fatækañ/ þu sem Audugur ert/ þvi þad er ad forsmæ hañs Skapara/ sem giørdest Dreige þiña vegna. Edur þvi skylldu Meñ þañ Vyrda/ er Gud hefur so mikels virdt/ ad hñ hefur fyrer hñ pÿndst/ z læted hønū sitt Evangelium opeñbera? Eñ hvar fyrer mun vor Frelsare seigia hier/ Ad Evangelium sie Fatækū bodad? Sañlega/ fyrst þess vegna/ ad Johañis Læresveinar þeckia mættu/ ad Spaadomur Esajæ 61. uppfylldur være. Eñ Guds Ande/ sm̄ þ Esajam talade/ hefur giørla fyrer sied/ ad ei mundu þeir marger verda/ er Christū medtæke/ sm̄ lifdu i Velgeing-

ne-

ne Heims þessa/so sem Raun gaf Vitne. Skule Menn og Sannleikann seigia/þa kiemur Fatæktenn betur samann vid Christs Evangeliu / enn Rykdomurenn. Hans Ryke var ecke af þessum Heime/Joh.18. og þvi er ecke Von til ad þeir mune vel skipast under hans Stioornan / sem hafa Gull-Hnøttenn fyrer sitt Athvarf/ og ei vita af annare Sælu ad-seigia/enn Audæfinn Heims þssa. Þar fyrer sagde JEsus fordumm Daga umm hinn Ryka Yngis Mann/ ad hægra være Ulfalldanum ad ganga i giegnum Nalaraugad/enn rykum Manne inn i Himnaryke/ Matth.19. Ecke þess vegna/ad hnn rykur var/helldur af þvi hnn angradest þegar DRottenn sagde ad hann skyllde giefa Eigur sijnar Fatækum og fylg-ia sier epter. Ja/sannlega a Fatækt og Armoodur betur vid Guds E-vangelium/enn Rykdomur mikell. Þvi seiger og Jacob Postule/Cap.2. Heyred/ Brædur mijner Elskuleger / Hefur ei Gud utvaled Fatæka Heims þessa/ad þeir verde Auduger i Truune og Erfingiar þess Ryk-is/ er hann heited hefur þeim / er hann elska. Enn þar er nærsta hætt-vid / ad þeir mune ecke hafa mikla Ast a Gude / sem ástunda miked Aura Safn. Hvar fyrer Paulus seiger/ad þeir sem ryker vilia verda/ þeir falle i Freistingar og Snorur / og margar Gyrnder skadlegar og Heimskulegar/ sem steypa Mannenum i Fordiørfun og Olucku/ 1. Tim. 6. og hier kuedur so ramt ad/ ad Endurlausnarenn seiger: Þier gieted ecke under eins Gude þioonad og Mammona/ Matth. 6. og þvi verr/ hvad mørg eru þau Dæmenn/ ad Menn elska meir Akneyte sijn og Bwgarda/ enn Drottens Kvølldmaaltyd/ sem þo er øllum tilboded/ þar fyrer lætur hann Blindum/Holltum og Vonudum samannsafna/ Luc. 14. Vier erum Ahyggiusamer eins og Martha/og mædumst i morgu/-enn fæer hyggia ad þvi / ad eitt er naudsynlegt / edur ad utvelia þad gooda Hlutskipted/ eins og Maria / Luc. 10. edur ad hafa Þijning med Guds Foolke/helldur enn Ægyptalands Audæfe/eins og Moyses/ Heb.11. Enn þott ad þessu sie nu so vared/ munu þa aller utelokader fra Evangelio/ þeir ed ryker eru/enn hiner aller inntekner? Fiærre fer þvi. Abraham hafde Gud giefed Gull og Sylfur/ Þræla og Am-

batter/ Vlfallda og Asna/ Naut og Saude/ Gen. 24. og þo kallast hañ Fader Trwadra/ Rom. 4. og þad var hønum til Riettlætis reiknad/ ad hañ Gude trwde/ Rom. 4. og þvi Evangelio er Gud hønum sialfur bodade / ad i hañs Sæde skylldu blessast allar Þiooder / Gen. 22. Job var Rÿkismadur/ og var hañ þo Guds Vinur/ Job. 1. og 42. David/ Josaphat/ Ezechias og Otal fleyre/ J Gamla Testamentenu voru Magtar Meñ/ og þo eru aller þeir fyrer Evangelium Trwareñar holpner ordner. Og ad Meñ vite ad þad ecke ødruvÿs er i Nÿa Testamentenu / þa er þad alkuñugt ad Nicodemus var eirn Høfdinge Gydinga/ þo kom hañ til JEsum a Nættarþele/ og þæde Undervÿsun af hønum/ Joh. 3. Jairus var Samkundu Høfdinge / þo leitade hañ Christi Hiælpar / Marc. 5. Um Hundrads Høfdingiañ sagde JEsus sialfur / ad hañ hefde ecke funded þvilÿka Trw i Jsrael / Matth. 8. og hefur hañ æn Efa eingeñ Smælinge vered/ þar hañ uppbygde Gydingaña Samkundu / Luc. 7. Johaña Hwstru Chusæ er var Rædsmadur Herodis/ Luc. 8. hefur vered rÿk Kona/ þo trwde hun a DRotteñ. Joseph af Arimathia var eirn Ræd-Herra og Audugur / þo var hañ Læresveirn Christi / Matth. 27. Cornelius var rÿkur / þo vottar Eingelleñ um hañ / ad hañs Bæner og Ølmusur giørder sieu uppstignar fyrer Gud / Act. 10. Dionysius Areopagita/ var Ræds-Herra i Athenuborg/ Act. 17. Paulus Sergius var Hyrdstioore/ og þo lietu bæder þesser skÿrast/ og tooku Christne af Paulo/ Act. 13. Og hvør kañ øll þvilÿk Dæme upp ad telia? Og so sem ad ecke eru aller Rÿker þessare Guds Ræd fraskilder / so verda og ecke helldur aller Fætæker heñar hluttakande. JEsus læknade ecke alla Hallta edur Blinda/ so hefur hñ ecke helldur giørt alla Fætæka Sælu holpna/ iafnvel þott hñ fyrer alla lided hafe. Fiærre sie þvi ad Fætækteñ kuñe nockrum ad afreka Himnarÿke / fyrer sialfa sig. So sem Gud hefur bølvad þm er riettlæter þañ Fætæka fyrer hñs Fætæktar saker/ z afeller hiñ Rÿka fyrer hñs Rÿkdooms Skulld/ So giører hñ og sialfur hvørugt i sÿnu Riettlæta Doome/ þvi hia hønum er eckert

Mañ-

Mañgreinar Alit/helldur a øllu Folke sm̄ giører hn̄s Vilia heþur hn̄ Þocknan/ Act. 10. Ad søñu er Rÿkdoomenū hættara eñ Fatæktene/ eñ so sm̄ margur/þvi verr/brwkar Audæþeñ til Ohoþs z Drambseme/ til ad under þryckia hiñ Volada og Lÿtelmagnañ/so er og Fatæktene ei helldur alltÿd Ohætt/og þvi aþbad Agur hana/ ad ei neyddest hañ- til ad stela/Prov. 30. Hvørtveggia þtta er epter þvi sm̄ m̄z þ er hønd lad. Ølmusugiørder Cornelÿ voru Gude eins þeckar/ Act. 10. og smæ Peningar Eckiuñar/sm̄ lagde meira i Guds Kistuna aþ sÿnū Fatæk- doom/ eñ aller hiner Rÿku / Luc. 21. Þar eru Fatæker sem ecke vil- ia erþvida med Høndunum / og læra þvi ad stela. Þar eru Fatæker sm̄ øþunda hina Rÿku/formæla þm̄ fyrer aungva adra Søk eñ þa/ad Gud heþur þm̄ meira lænad/hvør þo giører bæde Fatækañ og Rÿkañ epter Velþocknan siñe / Prov. 22. Svÿkia þa i allre Høndlan/ mei- na ad þeir so giøra meige ad Saklausu / hælast þar um̄ i siñ Hoop / hialpa ødrū til ad breyta þañeñ/z kalla þvilÿkt ad giøra Kiærleikañs Verk/so sm̄ hiñ Rÿke eyge aungvañ Riett a sier/nema þañ er hn̄ nær med Oþbellde. Þeir una Fatæktene illa/og stunda med øllum Hætte/ med Riettu og Raungu ad drÿþa hana fra sier. Munu þetta vera þeir Fatæker er Jesus hier um̄ talar i Gudspiallenu/Brædr mÿner? længt er fra þvi/ helldur þeir ed Fatæktena og allañ añañ Guds Kross med Þoleñmæde lÿda / sa ed lætur sier nægia med siñ deilldañ Verd. Gud telur ecke Peninga þÿna/christeñ Madur/helldur mæler hañ þitt Hug arþar/hañ er aungvañveigeñ riettelega Fatækur / sem giarnañ villde taka allt fra øllum eþ hañ mætte/jaþnvel þott eckert haþe hañ/eins og sa er ecke rÿkur/sm̄ vill meira haþa/ þott hañ haþe alls Nægter/ So- er og hiñ ecke Fatækur fyrer Gude/ er med Hiartanu gaper yþer øllu þvi hiñ Rÿke a/hiñ Rÿka kañ og ecke ad skada hañs Rÿkdoomur/eþ hn̄ brwkar hn̄ Gude til Dyrdar/z Naunganū til Gagnsmuna/ sa ed ecke treyster uppa Oriettindeñ edur Ranglæted / edur helldur sig til þess sem ad aungvu er neitt / Vilie hønum Rÿkdoomur til / þa fester hn̄ ecke Hiarta sitt vid hañ/Psalm. 62. Hañ reiser hiñ fallna/styrker


Mæl

Mal Eckiuñar og hiñs Fødurlausa/uppheƒur sig ecke i Hiarta synu/ helldur fellst a Jacobs Rad/er hañ seiger Cap.1. Sa sem rijkur er/ hroose sier i Læging siñe. Og fyrer þvi ad Gude hefur þocknast marg añ audugañ ad giøra/til ad audsyna i þvi so sm̃ ollu odru syna Giæsku vid Mañaña Sonu/eñ añars vegar er nærsta hætt vid/ad Audureñ sm̃ er fagt meige blinda Mañsins Hiarta/þa gierer St. Paall Rad fyrer þm̃ sem rijker eru i Christelegre Kyrkiu/1.Tim.6. (So langt er fra þvi ad þr sieu fra Evangelio utelokader) seigiande þm̃ sm̃ rijker eru i Ollo þessare/Predika þu ad þeir ecke metnest i Hiortum/og treiste ecke a Audæfeñ/helldur a hiñ lifanda Gud/sm̃ oss alla Hlute anægiañlega giefur til Notkunar/ad þeir sieu goodgiarner/ad þeir sieu rijker i goodum Verkū/sieu giafmillder og fuser a ad medbyta/safnande sialfum sier goodum Grundvelle til hiñs epterkomanda/ so ad þr hreppe eilyft Lyf. Fare nu nockur þessum Postulans Radum fram/þa er so langt fra þvi ad hñ fare hlutlaus af Guds Velgiørningū i Evangelio/ad hñ hefur meire Ordsok & Efne til ad giøra þad Gud hefur i Evangelio boded/helldur eñ hiñ sm̃ snaudur er/eda hvad er þad ad Christur seiger/ ad ei skule Vatnsdruckur Olaunadur vera i Læresveins Nafne giefeñ? Matth. 10. Hvad er hitt er hañ bydur? Ad Meñ skule giøra sier Vine af hinum ranglata Mammona/so ad þeir mediake oss i eilyfar Tialldbuder / Luc. 16. Allt er þetta til þess sagt / ad Madureñ lockest med Guds Nadar Fyrerheitum/til ad dyrka hañ med hñs Gafum/og Naunganum ad gagna/eñ ef odruvys er/þa klynger þar og ønur Bialla/hun lætur a þeñañ hatt/ hia Luc.6. Vei ydur sem rijker erud/ þier hafed ydar Huggun utteked. Og Jacob talar nockud skoriñordt þar um̃ Cap.5. seigiande: Nu vel þier Auduger/ græted og veined yfer Hørmungum ydar/sm̃ yfer ydur koma munu/ydar Audæfe eru fuseñ/ ydar Klæde eru uppeteñ af Mol / ydar Gull og Sylfur er ridgad/ og þeirra Rid vitnar a moote ydur/ og mun uppeta ydar Holld so sem Elldur/þier hafed geimt Fiesiooden til hiña sydurstu Dagaña/ Siaed Laun Verkamañaña/sm̃ hafa sleiged ydar Lönd/er þier hafed

iñe

iñehallded/ þau hropa/ Hrop þra er yrkt hafa/ er iñgeinged i eyru Drottens allsheriar. Þañ veg hefe eg nu sÿnt/ Brædr mÿner/ ad Rÿkdom z Fatækt eru Gude japnkiær/ þegar mz hvørtveggia er rietelega fared. Þvi vil eg þess ei dilia/ ad eg hygg ad Frelsareñ i þessa Dags Evangelio iñebynde þa i þÿsu Orde/ sem hañ talar uñ/ Matth. 5. seigiande: Sæler eru Andlega Volader/ þviad þeirra er Guds Rÿke. Þetta sÿnest mæda meiga aþ sialþū Spadome Esaiæ 61. til hvørs ad Frelsareñ vÿsar Johañi i Andsvare sÿnu. Hvør Spadomur so hlioodar. Ande DRottens er yþer mier/ aþ þvi hañ heþur smurt mig/ hañ heþur sendt mig ad boda Evangeliū þm̃ Noogværu / og ad binda vid þa sm̃ i Hiørtum eru Sundurknosader. Þetta skilst mier ad vera sama og Andlega Volader/ Matth. 5. Þad eru þeir sm̃ ad til þss þiña/ ad i þeim/ þad er i þeirra Hollde býr eckert gott/ Rom. 7. Þeir ed þeckia ad þeir haþa Skort a þeirre Hroosuneñe/ sm̃ fyrer Gude gillder/ Rom. 3. Þeir ed med hinum Fortapada Syne audmÿkia sig fyrer sÿnum Fodur / Luc. 15. Þeir ed med Tollheimtu-Mañenum voga ecke ad upplipta sÿnum Augum til Himens / helldur beria sier a Brioost og seigia: Gud vertu mier Syndugum Lÿknsamur / Luc. 18. Þeim ed so eru Andlega Volader/ og teikna sig so ot-fatæka/ aþ ollu þvi sem fyrer Gude gillda kañ/ ad þeim mislÿkar allt a sialþū sier/ þeim hygg eg ad bæde fyrst og sÿdarst tilheyre Evangeliū/ hvort helldur þeir rÿker eru edur fatæker/ þvi so seiger DRottenn / Esa. 66. A hañ lÿt eg sem fatækur er / og sundurkrameñ i Anda / og skielþest fyrer Ordum mÿnū. Þegar Guds Sonur kom i Heimeñ/ þa villdu Meñ aþ Verkunum Rietlater verda. Eñ hvad seiger JEsus þar uñ? Nema ydar-Rietlæte yþergnæþe meir eñ hiña Skriþtlærdu z Phariseaña/ þa kuñed þier ecke iñ ad ganga i Guds Rÿke/ Matth. 5. Þa Tÿundudu þeir Mintu Anis og Cumen/ þad var þeirra Guds Þioonusta/ eñ gleymdu þvi/ sem mest var i Logmalenu/ Doomnum/ Myskunsemeñe z Trwñe/ Matth. 23. Þa færdu þeir stoorar Foorner/ Marc. 7. a HErrañs Alltare/ og ætludu þar fyrer Hoolpner ad verda. Eñ DRotteñ seiger

þar um̃/ Esa. 66. Hvør ed slatrar Naute/ þ er/ sem hñ slæe Mañ i Hel/ hvør sem offrar nockrum Smá-Fenade/ þad er/ sem hañ Hálsbrite Hund/ so miked gillte sw wtvortis Guds Þionustañ i hañs Augum. Þar fundust ecke marger/ sm̃ giørdu soddañ Jafning fyrer Gude/ sem David/ helldur hiet þad so. Eg packa þier Gud/ þad eg em ecke eins og adrer Meñ/ Luc. 18. Þesser þottust rÿker vera af goodum Verkum/ og jafnvel ødrum lána kuña / eñ hvad seiger JEsus vid Biskupeñ i Laodicea/ þu seiger. Eg em full-rÿkur z hefe einskis Þørf/ eñ þu veitst ecke/ ad þu ert aumur z vesæll/ blindur z nakeñ/ Apoc. 3. og þ hygg eg seigia mætte um̃ Mwga Mañs a þm̃ Døgum. Þar fyrer var Evangeliũ Fátækũ bodad/ þar fyrer flycktust Tollheimtumeñ og Bersynduger til JEsum / Luc. 15. Þar fyrer komu jafnvel Heidner Meñ a hñs Fund. Þar fyrer sagde hñ til þssa Foolks/ Matth. 21. Sañlega seige eg ydur/ ad Tollheimtumeñ z Pwtr múnu ganga framar ydur iñ i Guds Rÿke/ Þvi Johañes kom til ydar med Riettlætesins Veg/ og þier trwdud hønum ecke/ eñ Tollheimtumeñ og Pwtur trwdu hønum/ eñ þier / sem ad sáud þetta / ydrudust ecke epter a / so ad þier trÿdud hønum. Og høfũ vier nu so nockud heyrt þar um̃/ hvilÿker ad þesser Fátæker sieu/ sm̃ vor Frelsare talar um̃ i Andsvare sÿnu til Johañem.

Nu vilium vier hier epter nockud um̃ siálft Evangelium tala/ sem þeim bodad verdur. Meñ kyñu ad efast um̃ hvørneñ þad skilia eige ad JEsus seiger hier alleina/ Ad Fátækum sieu Gudspiolleñ bodud / þar þo St: Páll vottar/ Tit. 2. Ad Heilsusamleg Guds Nád sie opeñber orden ollum Møñum. Hier byriar oss þad ad athuga/ ad jafnvel þott Christi Evangelium sie ecke nema eitt / þa verdur þo eitt og hid sama Evangelium med Tvøfølldum Hætte predikad/ sa eine hefur nockud af Logmálenu alltÿd med sier / og framblÿdur Guds Nád giefens veitta med Fororde/ ef Meñ ydrast Syndaña og af þeim láta. Hvilÿk var su Predikun Christi/ er Marcus um̃ gietur / Cap. 1. JEsus kom i Galileam/ predikande Evangelium Guds Rÿkis/ seigiande: Tÿmeñ er uppfylldur/ Guds Rÿke er komed/ giøred Ydran/ z

trwed

tweð Evangelio. Þess hattar var Predikun Johañis Baptistæ/ er hañ sagde: Giøred Yðran / þvi Guds Rijke er nalægt. Yxeñ er sett til Roolar Triaña/hvørt þad Trie/ sem ecke ber goodañ Avoxt/ skal uppheggvast og i Elld kastast/Matth.3. Hier er Oleum Evangelij blandad med sterku Løgmalsins Vijne/ til Lækningar þeim sem medal Ræningia hrasader voru/Luc.10. Med þessū Hætte a Evangeliū eñ nu ad kieñast i Guds Søfnuðū/hvar iñe ad bæde eru Vonder z Good-er/ Matth. 13. og þañ veg byriar Guds Fiarsioodum wt ad skipta i henlugañ Tijma/so hvør eirn fæe þ hønum ber/ þvi ei kom JEsus til ad uppleysa edur afma/ helldur til ad uppfylla Løgmaled/Matth. 5. Guds Næd i Evangelio hrijn ecke a Mañenū fyrer utañ eina lifande Trw: Vndañ eirne lifande Trw verdur ad ganga søñ Yðran : Søñ Yðran er alldrei nema med søñu Angre og Hiartañs Trega: Trege Hiartañs kañ ecke i Mañenum ad uppvekiast fyrer utañ Þeckingu Syndareñar: Þecking Syndareñar framkiemur af Løgmalenu/ Rom.7. hvar fyrer þott ad Løgmaled giøre øngvañ holpeñ af sialfu sier/ samt þioonar þ under Evangelium / trwudum Mañe til Sæluhialpar/ so þegar Bookstafureñ hefur deydt / þa lijfgar Andeñ/ 2. Cor.3. Þegar Løgmaled hefur sundur mared/þa læknar Evangelium/ þegar Mañeskiañ af Løgmalenu þecker ad hun hefur eckert añad forþienad eñ Helvijte / Guds Reide og eilijfañ Dauda / þa tekur Trweñ vid hønum z giører hñ lifande aptur fyrer JEsu Dauda/og endurnyar hañ til ad giøra framveigis Guds Vilia : Þessa Aiferd brwkade hiñ ædste Biskup z mikle Hyrder Saudaña optast til ad leida synduga Meñ til Guds Rijkis/þa sømu brwkudu og aller hñs Þienarar uñ alla Æfe. Noe var Riettlætis Predikare/ 2.Pet. 2. Nathan straffade David/ adur eñ hñ hyggade hñ/2.Sam.12. Aiferd Johañis Baptistæ/ er øllum kuñug/ Matth. 3. So er nu þesse hiñ almeñelege Hattur og Mate til ad predika Evangelium / sem aller Guds Ords Þienarar eiga ad vita z brwka. Añar er sa sem tilhlyder angrædum og sturludum Mañeskium/ þeim sem allareidu hafa þeckt

Syndena/

Syndena/og so eru ap heñar Vm̃þeinkingu sundurmarder/ad þr reikna sig Overduga Guds Nadar/og so Famader/ad þeir vita ecke hvad þeir eige ap sier ad giora : þeckia ad sønu Guds Nad/ eñ opbÿdur þo Stærd Syndaña : þeir vita ad Sool Riettlætesins JEsus Christus er þeim upprunneñ/Mal. 4. Eñ pyrer þvi ad þeir treystast ecke til ad lypta sÿnum Augum til Himeñs upp/ Luc. 18. og ad þoka Syndaña skilur a millum Guds og þeirra/ Esa. 59. þa fa þeir ecke i giegnum hana sied ( pyrr eñ heilagur Ande ridur Trwareñar Smyrslum a þeirra Hiartañs Augu) hvad pagurt hun skÿn/þeir þeinkia helldur a Stærd Syndaña/ eñ til Fiølda Guds Myskunsemda/ og i einu Orde ad seigia/ þad eru þeir Fatæker/ er sier i lage um̃ talad er hier i Gudspiallenu/þm̃ tilheyrer Evangeliũ/eintomis an Løgmalsins straungu Notana. Hvar pyrer? Þviad Guds Ande hefur alla reidu verkad allt þ/sm̃ Løgmaled atte ad verka/sm̃ er þeckingu Syndaña z saña Ydran/er af heñe kiemur. Þeim verdz bodad/ad hvar sm̃ Syndeñ ypergnæpe/ þar ypergnæpe Nadeñ miklu pramar/ Rom. 5. Þeim verdur sagt ad Mañsins Sonur kom til ad kalla Synduga/ eñ ecke Riettlata til Ydrunar / Matth. 9. Þeim a ad Predika / ad Blooded JEsu hreinse þa ap ollum Syndum / 1. Joh. 1. Og þo ad þeirra Synder sieu raudar sm̃ Blood/skule þær eins hvÿtar og Sniovt verda/Esa. 1. Þeim seiger David/ Ps. 34. Nalægur er DRotteñ þeim sem sundurkramder eru i Hiortũ z Harmþrwngner i Anda/til þeirra seiger Esaias 55. Heyred þier sm̃ þyrster erud/ komed til þessara Vatna/ og sa ed aungvañ Pening hepur/ komed / medtaked og snæded. Komed seige eg og fæd Okeipis og fyrer eckert/bæde Vÿn og Miolk. Til þeirra hroopar sialpur JEsus / sem bored hepur Synder Verallðareñar / Matth. 11. Komed til mÿn aller þier sm̃ erþided og þwnga þiader erud/eg vil ydur endurnæra/til alls þessa seiger oll heiløg Guddoomsins Preñing Amen. Ezech. 33. Þier seiged ap þvi ad vorar Yperttrodslur og Synder liggia a oss/ þar fyrer visnum vier upp i þeim / hvorneñ skylldum vier meiga lipa/þa seig þeim/ so sañarlega sem eg lipe seiger DRotteñ/

DRotteñ/þa vil eg ecke Dauda hins Oguðlega/helldur ad hañ snwe sier og lifie. Ecke eru þss Dæme ad Fader Myskunsemdaña/hafe nockurn þañ fra sier reked / sem til hañs komed hefur / Joh. 6. Þetta er Evangelium Fridarens / sem hier bodad verdur / Esa. 52. Lat þui ei syndugur Madur þyna Sælu vera Orolega i þier/þui þu hefr Frid-vid hañ feinged / hvørs Ovinur þu varst / þegar hañ gaf siñ Son i Daudañ fyrer þig / Rom. 5. Þad skiedur hia goodum Konungum / nær þm fædist eirn Sonur/ ad þr giefa einhvørn Bandingia lausañ/ eñ Gud Fader liet hroopa til allrar Verralldar i syns Sonar Fædingu/ Fridur a Jørdu og Moñum goodur Vilie/ Luc.2. Þetta er Evangelium Fagnadarens/ Luc. 2. Þui Einglarner swngu/ Eg boda ydur mikeñ Fagnud/ þañ er skier ollu Folke. Lat þier þui ecke so Ogna Synder þynar/þott þær yfrid margar sieu z stoorar/ ad þu ecke under eins glediest i Gude Heilsugiafara þynum / Luc. 1. Meire Glede er i Himnenum/ seiger JEsus/ yfer Einum Syndara/ sem Ydran giører/ helldur eñ yfer nyu og nyutyu Riettlætum / Luc. 15. Nu fyrst ad sialfur Gud og hñs Heilager fagna so miøg þynu Afturhvarfe/ þui skyllder þu þa hryggur vera. Þetta er Evangeliū Guds Nædar/ Act. 20. og Embætte Forlykunareñar/ 2.Cor. 5. Eñ þu hrædest oll þyn Verk eins og Job/og veitst ad jafnvel þitt Riettlæte/er so sem nidlags Fat/ Esa.64. Nu er þetta Nædareñar Evangelium/i hvoriu Syndarañū verdr frāmbodeñ/Nad wt af Nad/eñ ef þ er af Nad/þa er þ ecke af Verkunū/seiger Postuleñ/ Rom. 11. Þyn Verk eru vond/ eñ þetta er þo Evangelium goodra Hluta/Rom.10. Þitt Hiarta fordæmer þig/ eñ Johañes seiger þo/ ad Gud sie meire þynu Hiarta/ og vite alla Hlute/1. Joh.3. Veit hañ alla Hlute/þa veit hañ og þad/ad þu ert Andlega voladur/þui vill hañ þier Himnarijked giefa/Matth.5. Eingeñ er sa snaudur/er hñ a heillt Kongs Rijke/þo er Syndareñ rijkare/þegar hñ a Guds Rijke/og verdur þa rijkastur/þegar hñ er sem fatækastur / og mattugur / þegar hañ veikur er eins og St. Pall / 2. Cor. 12. Veit Gud alla Hlute / Þa veit hañ og þad / ad þig

hwngrar og þyrster epter Riettlætenu / Matth. 5. Eñ ef þu sem Bondur ert/kañt ad giefa Bornum þijnum goodar Gæfur/ef þu sem ert aleñ i Synd / munder ei neita daudþyrstum Mañe Vatnsdryckiar/ mun þa Gud sem er alleina goodur/ tefia leinge ad svala þier med Heiløgum Anda/þa þig langar epter hønum/so sem Hiorteñ epter ferſku Vatne / Psalm. 42. Þu fellur i þær Synder er Gud hefur þier ædur fyrergiefed/ og þad optar eñ Einusiñe / þad er illa giørt / Lat þig þad af Hiarta angra/og syndga ei þañeñ framar/ad þu ecke uppauser Bruñ Myskunareñar / Eñ giæt þo þess ad þetta er Evangelium Forlijkunareñar/2. Cor. 5. Christur er Kieñemadur ad Eilijfu/ Hebr. 7. og situr til Fødursins hægre Handar / til ad bidia fyrer oss Oaflætañlega. JEsus skipade Petre ad fyrergiefa sijnum Brodur Siøtiusiñum sio siñum / Matth. 18. Nu ecke ad Fader Myskunsemdaña mune vera sijdur nædugur/ eñ hñ ætlar til ad þu skuler vera/ sierdeilis þar hñ seiger: Vered myskunsamer/so sm ydar Fader er myskunsamur/Luc.6. eñ brwka samt ecke þssa Guds Nad til Hyrduleysis edur til ad giefa Holldenu Taum. Hæd ecke ad høñu sm Augad hefur skapad og Eyrad hefur plantad / Psalm. 94. og er Hiartnaña og Nijrnaña Rañsakare/ Apoc. 2. Þvi hañ lætur ecke ad sier hæda/ Gal. 6. Hafe Gud fyrergiefed þier margar Synder / þa vit ad þier er þess vandara. Þeink a þañ Tijma / hvørsu ad Syndeñ var þier Obæreleg / ædur eñ Gud huggade þig med Evangelio / hun mun þo betur bijta / ef þar kyñe ad koma / ad hañ yrde fyrer Alvøru reidur. Slockved ecke heilagañ Anda seiger Pall Postule/1. Tess. 5. Giæt ad þvi syndugur Madur/ þvi kañskie/hañ verde ecke so hægt aftur ad kveikia. Sia nu ertu heilbrygdur sagde JEsus vid hañ/sem hñ læknade vid Dijked Betesda/syndga nu ei framar/ad ei hende þig añad verra / Joh. 5. Þu hefur eitt Siñ leiged vid Dijke Guds Nadar / og Eingell hiñs mikla Rads hefur so hrært þad / ad þier vard til andlegrar Heilsubootar. Sia til ad þu ei aftur misser Heilsuna & verder so ad kvarta uñ med þessum Mañe/þad þu aungvañ hæer sm ad kaste þier

þier i Dijked/ þegar JEsus er fra geingeñ. Hafe hñ eitt siñ wtreked Disipuleñ fra þier/þa giallt varhuga vid/ad ei hverfe Sathan aptur/ og take sig Anda sier verre/og verde so þitt hid Sijdara / argara hinu Fyrra. Luc. 11. Nu hef eg so med faam Ordum sagt/Brædur mijner/ Hvilijkt ad sie þad Evangeliũ/ sem Fatækum bodad verdur. Þeñañ-Veg gieck JEsus til ad leita ad þm sm añadhvørt harmþrwngner voru/ og sundurkramder i Mootlætenu / edur Særder og Lemstrader af Tilfiñingu Syndaña. Hañ hafde ecke mørg Ord vid hina Bersyndugu i Simons Huse/hñ took ordalaust heñar Forsvar a Hendur/z sagde: Ad heñe fyrergiæfust heñar mørgu Synder/af þvi hun elskade mikid/ Luc. 7. Hañ skipte ecke mørgum Ordum vid hina Bloodfallssiwku/ er gieck Bak til vid hañ/og snerte Falld hañs Klæda/ hañ sagde alleina/Vertu hughraust mijn Dootter / þijn Trwa giørde þig heilbrigda / Matth. 9. Hañ hafde og ecke længordt vid hiñ Limafallssiwka/ er þeir lietu sijga ofañ af Þakenu nidur fyrer hañs Blessadar-Fætur/ hañ reysste hañ strax upp med þessu Huggunar Orde: Vertu Hughraustur Sonur/þier eru þijnar Synder fyrergiefnar. Matth. 9. Hañ ætalde ei stoorum Hoor-Konuna/ til hvørrar hañ sagde: Kona/ hefur nockur fordæmt þig? Eñ hun kvad nei vid/þa sagde hin eilijfa Giæska/So fordæme eg þig ecke helldur/far burt z syndga nu ei framar / Joh. 8. Eingeñ er þvilijkur Guds Velgiorningur / af øllum þm Fiollda sem hañs Fødurleg Naad hefur tiaad syndugũ Møñum / sem þesse/Eingeñ Hwngradur verdur so feigeñ ad eta/eingeñ Þyrstur ad drecka/eingeñ Nakeñ ad klædast/eingeñ Þreyttur ad hvijlast/eingeñ Villægur ad naa Landsvist aptur/ eingeñ Sioohrakeñ Landenu/eingeñ Siwkur Batanum/ eingeñ Þræll Frelsenu/ eingeñ Fiotradur Lausneñe/so sem Fatækur verdur Evangelio / og eirn Syndare sem einskis Von a neina eilijfra Helvijtis Þijsla/so sm hñ verdur þvi feigeñ seige eg/ad Guds Naadar Lioos skijn i hñs Hiarta/so ad hñ sier med Trwareñar Augũ/ad hañs Synder kvittar eru. O Herra JEsu Christe/ þu saklausa Lamb Guds/sem burtu ber allar Veralldareñar Synder/

Kieñ þu oss ad þeckia vorn Overdugleik/Drag þu Skyluna fra vorum døpru Augum/so ad vier mætkum sim vora Bligdan/straffa þu Synd ena i oss med sañre Ydran og Angre Hiartañs fyrer allt þad Illa sem vier fra Barnæsku vorre høfum drigt a moote þier/og þa vier erum so nidurslegner i Hiortū vorū / og þyn volldugа Hond er oss so sterk ordeñ/þa riett oss aptur þyna Nædar Hond / ad vier ei sockvum i Diwp Orvæntingareñar / helldur forlætum oss þar uppa/ ad þu sierf oss af Gude giefeñ til Riettlætis/ til Helgunar og eilyfrar Endurlausnar / 1. Cor. 1. Bænheyr þad HErra fyrer þyna Forþienustu / A M E N.

## Fiorda Suñudag i Adventu.

Gudspialled / Joh. 1. Cap.

Þeim Tyma Gydingar sendu af Jerusalem Presta og Levita/ ad þeir skylldu spyrja hañ ad/ hvør ert þu? Og hañ medkieñdest og neitade þvi ecke. Og hñ medkiendest/ seigiande. Eige em eg Christur. Og þeir spurdu hñ eñ þa ad/ hvad þa? Ert þu Elias? Hañ sagde/ ei em eg. Ert þu þa Spamadur? Og hñ svarade nei/ ecke. Þa sögdu þeir vid hñ. Hvør ert þu þa? So ad vier meigū Andsvar giefa þeim er oss wtsendu. Hvad seiger þu af sialfū þier? Hañ sagde: Eg em hroopanda Rodd i Eydemørku/ greide þier Gøtu DRottens / so sem sagde Esajas Spamadur. Og þeir sem wt voru sender/ voru af Phariseis. Og þeir spurdu hañ ad/ og sögdu til hañs: Þvi skyrer þu þa/ fyrst þu ert ecke Christur/ eige Elias / og eige Spamadur? Johañes svarade þeim og sagde: Eg skyre i Vatne/ eñ sa stood i Mided hia ydur/ hvørn þier þecktud eige. Hañ er sa sem epter mig mun koma / hvør ed var fyrer mig / hvørs Skooþveinge eg em ei verdugur upp ad leysa. Þetta skiede i Bethabara / hinumeigeñ Jordanar / þar sem Johañes skyrde.

## Exordium.

I þessu

J Þessu Heilaga Evangelio er Tvent sem þarf ad athuga. Þad eina ad Johañes seigest ecke Elias vera / eñ JEsus seiger þo um̃ hañ / Matth. 11. Ef þier vilied þad medtaka / þa er hañ Elias sa ed koma skal / Og hiæ Mattheum seiger hañ ad Elias komeñ sie / Matth. 17. Þad er añad / ad hañ neitar þvi / ad hañ sie Spæmadur / eñ hañs Fader Zacharias seiger þo um̃ hañ / Luc. 1. Og þu Sveirn munt kallast Spæmadur hiñs Hædsta. Þetta syniest hvørt ødru gagnstædt vera / Eñ þess byriar ad giæta / sem St. Petur seiger / ad Spædoomarner eiga ecke wt ad leggiast epter eigeñ Þootta / þvi þeir eru ecke ad Mañlegum Vilia til vor komner / helldur hafa Guds heilager Meñ tilknwder af heilgum Anda talad / 2. Pet. 1. og þvi er eingeñ Vegur betre edur beirne til ad leggia þa wt / helldur eñ sialf Ritningeñ. Hia Malachiam 4. seiger Ande Guds / Siæ eg mun senda Eliam Spæmañ til ydar / ædur eñ kiemur sa mikle og hrædelege Dagur DRottens. Sa Elias er nu Johañes i Raun og Sañleika / hañ giecк undañ Guds Folke i Anda og Krapte Eliæ / so sem Eingelleñ spaade / Luc. 1. Elias var eirn strangur Vandiætare i Guds Stad. Johañes var og Ydranar Predikare. Elias sagde hinum Ogudlega Achab Konunge til Syndañña / 1. Reg. 21. Johañes ætalde Herodem Konung / Matth. 14. Elias upprætte ad miklu leite Afgudadyrkanena wr Jsrael / 1. Reg. 18. Um̃ Johañem seiger Frelsareñ / Matth. 17. ad hañ mune vidrietta alla Hlute. Elias bodade hiñ saña Guds Veg / 1. Reg. 19. Johañes kom med Veg Riettlætesins / Matth. 21. Um̃ Eliam er spaad / Malch. 4. ad hañ mune snwa Hiørtum Fedraña til Barnaña / og Barnaña til Fedraña / og hañ sama Spaadoom þyder Eingell DRottens uppa Johañem / Luc. 1. Og ad Meñ ecke efest um̃ þad / ad Johañes sie Elias sa ed koma ætte / Þa skrifar Matth. 17. Ad þegar Læresveinarner sæu a Fiallenu Eliam og Moisen tala vid JEsum / er hañ Forklæradest / þa bafe hañ bañad þeim ad seigia þa Syn nockrum / fyrr eñ hañ være uppriseñ / Eñ þeir spurdu / Pharisæi seigia ad Elias eige ædur ad koma / Eñ hañ sagde: Elias a ad søñu ædur ad koma og Lagfæra alla Hlute. Eñ eg seige ydur / ad Elias er allareidu komeñ / eñ þeir þecktu hañ ecke / helldur giørdu vid hañ / hvad þeim lykade. So mun og Mañsins Sonur verda pyndur af þeim / þa skildu Læresveinarner ad hañ talade vid þa um̃ Johañem / seiger Mattheus. So er nu Johañes sa riette Elias sem koma ætte / Eñ þo ecke eirn og hiñ same Elias Thesbiter / Og so sem Guds Ande seiger / Hos. 3. Ad þeir mune leita syns Konungs Davids / sem þo er ei añad eñ Christur. So heiter Johañes hier Elias / jafnvel þott hañ ecke Elias være. J ødru Lage neitar Johañes þvi / ad hañ Spæmadur sie. Hier byriar ad athuga / ad Gydingar hafa æn Efa vered i þeirre Villu / ad Gud munde ecke einasta senda Eliam Thesbiter i eigeñ Persoonu til þeirra / helldur og eirn añañ Spæmañ lykañ Moisi / hvad þeir dreiged hafa af sialfs Moisis Ordum / Devt. 18. Er hañ sagde: Spæmañ mun Gud ydur uppvekia af Brædrum ydar lykañ mier / hønum skulud þier heyra. Hvør Ord alleina eiga um̃ DRotteñ JEsum ad skilliast / so sem St. Petur þad wtleggur / Act. 3. Þad

mæ og ræda aþ Ordum Folksins / er sagde um JEsum/ Joh. 6. Þesse er sañarlega sæ Spæmadur/ sem i Heimeñ koma skal/edur hvad er þad añad/sem stendur/ Maccab. 14. Ad Gydingum og Kieñemøñum syndest ad Simon skyllde vera þeirra Hertoge Æþeñlega / þar til sa visse Spæmadur kiæme / 1. Maccab. 14. Vilie Meñ og grandvarlega athuga Spurn Gydinga/ þa er hun þañ Veg. Ertu sæ Spæmadureñ ? Hvad talad synest um einhvørn vissañ Spæmañ / sem þeir væntu epter/ Eñ so sem Johañes þvi riettelega neitade/ ad hañ være Elias epter þeirra Meiningu / So kvad hañ og ræi vid hinu med øllum Riette / ad hañ sæ Spæmadur være / sem þeir epter væntu / jaþnvel þott hañ være Spæmadur hiñs Hæsta / so sem hañs Fader Zacharias ædur sagt haþde / og meir eñ nockur Spæmañ ad Christi Vitne / Matth. 11. Og er þetta ad seigia um persoonu Johañis. Eñ aþ hañs Andsvørum/ eigum vier Christelega Hoogværd ad læra. Hvar um eg þrañveigis tala vil. Þar til styrke Guds goodur Ande þyrer JEsum Christum / A M E N.

# Vtleggingeñ.

HJd þyrsta Andsvar Johañis/er hañ gaþ Sendemøñum Gydinga/ er þetta : EJge Em Eg CHRJSTur. Spurn þeirra var þañ veg. HVor Ert Þu? Og synest so sem hañ haþe ei viliad bijda epter þvi/ ad þeir spyrde hañ ad/ HVort Hañ CHRJSTur Være/ þvi hañ heþur mæ Eþa viliad/ ad þess hættar munde Erinded vera/ þar þ þortekur hañ þad strax/z seiger : EJge Em Eg CHRJSTur / og mæ þar aþ siæ / hvorsu ant honum heþur þar um vered / ad eingeñ skylde so mikla Nlute um sig þeinkia/ hvar þyrer hañ giefur og ecke bundist sijdar i Gudspiallenu/ ad tala so Skoreñordt hier um/ ad aller skilia mættu/er hañ seiger : SA STood i MJded Nia YDur/ Hvorn þier þecktud eige/ hañ er sa sem epter mig mun koma/hvør og þyrer mig var / hvørs Skoþveinge eg em ei verdugur upp ad leysa. Gudspiallamadureñ sem þetta ritar/hañ heþur so mørg Ord hier um/ seigiande : HAñ MEDkiendist Og NEitade Þvi Ecke / og hañ medkiendist/ og sagde : EJ Em Eg CHRJSTur. Og er þad audsært þar aþ/ ad hañ heþur a allar Lunder viliad gyrda fyrer þad/ ad eingeñ skylde þvilijkar Dpgar i Hug sier leida. Þañ veg haþa aller Guds Elskendur Lynder vered/ ad þeir haþa fyrerorded sig/ þa þeir a einhvørn Hætt haþa orded añadhvørt ad nælægiast Gud/ edur og ad þeirra

þeirra hefur under eins gieted verid og hiñs stoora Konungs/ sm ollu rædur/ bæde a Himne og Jørdu. Heilogum Johañi var þetta nærsta Ætlgeingt ad blygdast fyrer synum Gude og Skapara. Þegar Guds Mooder Maria heimsokte Moodur hñs Elisabeth Frændkonu sjna/ er hun var Olett ad honum / þa fagnade hun heñe a þeñañ Hatt. Hvadañ kiemur mier þad/ ad Mooder DRottens mjns kiemur til mjn? Lúc. 1. Eins var sialfs Maria Skape fareñ / er hun sagde til Eingilsins. Eg em Ambaatt DRottens/ verde mier epter Orde þjnu. Abraham visse ei hvad hñ ætte af sier ad giøra/ þegar DRotteñ vyrdte hañ Vidtals/ þvi sagde hañ: Eg villde nu giarnañ tala vid DRotteñ Gud/ þott eg sie Dupt ꝛ Aska/ Gen: 18. Eg vil ei þar um tala/ hvørsu Postular DRottens vordust allre þeirre Lotningu / er adrer synduger Meñ villdu veita þeim/ þa þeir kiendu JEsu/ edur giordu Kraptaverk i hañs Nafne. Þegar Cornelius fiell til Foota Peturs / þa reiste Postuleñ hañ jafnott a Fætur/ og sagde: Statt upp/ eg er eirneñ Madur/ Act. 10. Þegar Folked i Listris sagde ad Guderner væru Moñum lijker ordner/ og til þeirra ofañkomner/ Act. 14. af þvi ad Paall reiste þañ a Fætur med einu Orde/ er Foothrumur var fra Moodur-Lijfe/ og vildu hafa fært honum og Barnabæ Foorner/ þa sundurtifu þeir sijn Klæde/ stucku iñ i Mañþrongina/ hroopudu og sogdu: Þier Meñ/ hvar fyrer giøred þier þetta/ Vid erum Meñ/ sama Breiskleika og þier underorpner. Jaa/ ecke einasta Guds Heilager Meñ og Astviner/ hafa þañ veg blygdast fyrer Gude/ sem meir eñ skylldugt er/ helldur og hafa hañs volldugu Einglar hid sama giort. Þad maa medal añara lesa/ Apoc. 19. Þegar Eingelleñ talade vid Johañem/ þa skrifar hñ a þeñañ Hatt. Og eg fiell fram fyrer hañs Fætur ad tilbidia hñ/ ꝛ hñ sagde vid mig: Sia ad þu gjører ei þetta/ eg em þiñ Medþienare og Brædra þiña/ þeirra er hafa Vitnisburdeñ JEsu/ tilbid þu Gud. Hafe nu Guds heilager Meñ ꝛ Postular/ hafe Johañes Baptista/ um hvorn Sañleiks Muñureñ vitnar/ ad eingeñ sie meire af Kviñuñe fæddur/ Matth. 11. Hafe hañs blessud Mooder / sem

hina

hina mestu Tign hefur af Gude þeiged allra syndugra Maña / sem borner eru i þeñañ Heim: Nafe Guds heilager Einglar / sem eru all-deilis án Syndar: Nafe þesser / seige eg / so audmÿkt sig fyrer hñs Natign z Velldo / Hvad miklu framar byriar þier þa syndugur Ormur / ad audmykia þig under volldugа Guds Hønd / sem allur ert i Synd / z ecke eitt Augnablik lifer án Syndar i hñs Auglite. Nafe Sonureñ giørst Fodurnū hlÿdeñ allt til Daudañs / ja / allt til Krossens Dauda / Phil. 2. Ef St. Pall / 1. Cor. 15. seiger / ad a sÿdarsta Deige / þegar hñ afhender Rÿked Gude z Fødur / þa mune hñ (þo epter Mañdoomenū) Undergiefeñ verda hønum / sem alla Hlute giørde hønū undergiefna / ætter þu þa ecke ad skamast þÿn / ad standa upprietur i hañs Auglite / þu sm̃ optsiñis ert Ohlÿdugur / Yverbroteñ / Toomlatur / og forsmaaer hñs miklu Myskunseme / sm̃ Daglega er nÿ z ferskÿfer þier a hvørjum Morgne / Thren. 3. Hvar fyrer hafa Guds Heilager so audmykt sig fyrer Gude? Þvi þeir elskudu hañ. Þvi hafa þeir hañ elskad? Þvi þeir þecktu hañ. Þvi þecktu þeir hañ? Þvi þeir lærdu fyrst ad þeckia sialfa sig. Hvad þecktu þeir hia sialfū sier? Eckert nema Eymd og Volæde. Hvad hia Gude? Eckert nema Dyrd z Vegsemd. Giør slÿkt hid sama og muntu finna / hvorsu ad þu ert miña eñ ecke i Guds Auglite. Ber þig samañ vid hañ / þott nockud Olÿkt sie samañ ad bera / z næsta sundurleitt / giør þ̄ þo / þvi slÿkur Samburdur mislÿkar hønū ecke / ef hñ mætte duga þier til ad kañast vid Eymd þÿna / z hñs Dyrdarfulla Natign / hvorka þo Daudlegur Madur alldrei kañ ad þeckia so sem hun er. Judar spurdu Johañem ad / HVØR ERT ÞU? Ef þu spur ad hvor Gud sie / þa verdur ei svarad / nema med hañs eigeñ Ordum: Gud er eirn Ande / Joh. 4. þo ecke so sem adrer Andar / helldur Fader Andaña / Heb. 12. Og svo Oÿdlegur / ad honum má vid aungvañ Hlut samlÿkia / Esa. 40. Um hañ verdur ei nær komest ad tala / eñ med þeim Ordum / er under eins medkieña Fáfræde vora til ad utmála hañs Dÿrd / sem er / ad hun sie Omælañleg / Oendañleg / Orañsakañleg z Outseigiañleg. Eñ spur

Spur sialfañ þig ad / Hvad ert þu? J Fyrstuñe eckert / og sijdañ Leir Jardar / sem Gud skoop hiñ Fyrsta Mañ af / Gen. 2. Gud er eylijfur / sa sem er / og sa sem var / og sa sem koma mun / Apoc. 1. Eñ hvør ert þu? nockurskonar Gufa / er siest um̃ Hrijd / eñ hverfur sijdañ / Jac. 4. Gud er Omælañlegur / hañ uppfyller bæde Himeñ og Jørd. Þad vottar Zophar af Naema / seigiande / Job. 11. Muntu med Hugganum gieta komest ad Stærd hiñs Almættuga / hañ er hærre eñ Himeneñ og diwpare eñ Helvijted. Eñ hvør ert þu? Mæl sialfañ þig / sem ert færra Foota Leingd og megnar ecke med allre þiñe Ahyggiu ad auka eirnre Alen þar vid / Matth. 6. Gud er Alvitur / aller Hluter eru berer og nakter fyrer hañs Augum / Hebr. 4. Eñ hvør ertu? Þu veitst ecke hvad a Morgun mune skie / Jac. 4. Gud er Almættugur / hia hønum er eingeñ Hlutur Omættugur / Luc. 1. Eñ hver ert þu? Þu formætt ecke ad giøra eitt hvijtt Haar svart a þijnu Høfde / Matth. 5. DRotteñ er Riettlætur og goodur / seiger David / Psalm. 25. Og so sem hañ er i siælfum sier / so er hañ i sijnum Verkum. Eñ hvør ert þu? Þijner Þankar eru vonder i fra Upphafe / Gen. 8. og so eru þijn Verk / þvi þar er eingeñ sa ed Gott giore og ecke eirn / Psalm. 14. Gud er Sañordur / øll hañs Bodord eru Sañleike / seiger David / Psalm. 119. Ef vier Otrwer erum / þa er hañ trwr / Sialfum sier kañ hañ ecke ad neita / seiger Paall / 2. Tim. 2. Eñ hvør ertu? Spur St. Paal ad / hañ mun svara þier / Rom. 3. Verde Gud Sañordur / eñ aller Meñ Ligarar. Hvad virdest þier nu syndugur Madur? Muntu ecke / þegar þu so helldur Reikning mille Guds og þijn / munt þu ecke (seige eg) fulla Ordsøk hafa til ad skamast þijn fyrer hañs Auglite / sem þier so miklu mætkare / miklu ædre / miklu betre / miklu riettlætare er / og i einu Orde ad seigia / hia hvørium þu ert ... eñ ecke ad reikna / Og fyrer utañ allt þetta / þa hefur hñ þig so aumañ / so færædañ / so vondañ og Onoogañ sialfum þier um̃ alla Hlute / upp wr Þrecknum hafed / og sett þig i sijns Sonar Rijke / Col. 1. Eñ lijtelæckad hañ / og giørt þier ad øllu samlijkañ / Hebr. 2. Ad þvi

einu undanteknu er hañ var strafadur fyrer/ eñ þu ert frelsadur fra/ sem er Syndeñ / Hebr. 5. Fyrer hvøria hañ er deyddur. Eñ þu þieckst Lijfgiøf fyrer hañs Dauda/ þvi skyllder þu þa aumastur allra skapadra Hluta Guds a Jørduñe/ Skyllder þu (seige eg) stæra þig edur metnast i Hiarta þijnu/ so sem værer þu nockud fyrer utañ Gud/ Og ei miklu helldur med Audmykt þijns Hiarta/ þacka hønum þess iñelegar/ sem hñ hefur giefed þier meira Vit a ad þeckia þad/ og meira til þijn lagt eñ allra añara. Eirn Guds Eingell hefur hønū meira ad þacka fyrer hiñ miñsta Dropa hñs Giæsku/ er hñ hefur til hñs lagt/ helldur eñ allar skynlausar Skiepnur/ fyrer øll Nátturuñar Giæde og Skøpun allra Hluta. Eñ þu syndug Mañeskia hefur meira af hønū þegid i hiñū miñsta Nadarmola andlegra Giæda/ helldur eñ allar Einglañа Hersveiter i øllu þvi sem øllum þm er tillagt. Hvar fyrer? Þvi ad til þiss ad þu lifa skyllder fyrer Rad Guds/ hefur hñ læted Son siñ ecke Eingla ña/ helldur Abrahams Sæde uppa sig taka/ Hebr. 2. og giort þitt Holld sem hañ uppa sig took Einglunum so miklu ædra/ sem hañ hefur framar þeim ædra Nafn ødlast / Hebr. 1. og þo læted hiñ lifanda Gud i mañlegu Hollde deyia mañlegū Dauda/ so þu mætter Gudlegu Lijfe lifa/ þvi hefur hñ so miklu meira til þiñar Upphefdar uñed eñ til Eingla ña/ sem JEsum hañs Son hefur meira kostad ad endurskapa þig/ helldur eñ alla Einglana ad skapa/ fyrer þvi attu hønum so miklu meira ad þacka eñ þeir/ sm̄ hñ hefur meira uppa þig kostad. Eñ hvar med villtu hønum þacka/ ecke etur hañ Kiøt Nafrañа/ edur dreckur Blood hiña feitu Vrañа / Psalm. 50. Offra hønum Lofgiordeñe/ og giallt hønum þijn Heit / þad er audmiwkur Ande og sundurkramed Hiarta / hvørt hañ mun ecke fyrerlijta/ Psalm. 51. Þu kañt ad seigia/ Eg jafna mier ei samañ vid Gud/ ei hef eg mig upp a moote hønum/ eg veit/ eg a hønum allt Gott ad þacka/ og ef hañ vill Doom hallda vid mig/ þa hefur hñ Valld til ad kasta Lijfe z Sælu i eilijfañ Elld / Matth. 10. Þu seiger vel / þvi allt þetta er meir eñ satt / Eñ rañsaka Hiarta þitt vel / hvørt Hugur hefur alltijd

fylgt

fylgt Mæle/ Heþur þu auðmykt þig so fyrer þijnum Gude sem byriad Heþur/bæde med Orde og Verke? Ef han er þin Fader/ hvar er þa hans Heydur? Giæt ad þvi JEsus seiger/Matth. 21. um þan Son/ er Faderen skipade ad erþvida i Vijngardenum / og han kvad jæ vid/ en foor þo hvorge/þad er ei noog ad nælægiast han med Vorunum/ ef Hiartad er langt þar fra. Vier seigiunst aller eiga ad elska Gud fram yþer alla Hlute/ og þad er þad sanna Audmyktar Merke ad elska han/en Gud næde hvornen þad eþnt er/þar vier læten oss a Stundum alla Hlute skylldare vera en hans Dyrd. Þegar Holldid og Andskoten freista þijn til Syndarennar/en þier kiemur þa i Hug ad Gud haþe þad banad/samt hlijder þu Holldenu i þessi Gyrndum/ og lætur Syndena i þvi drottna / Rom. 6. Er þad ecke ad upphefia sig a moote Gude / og meta framar þijs Munad en hns Bodord. Hvorier erum vier þa a medan? Ecke Guds Þionar/helldur Þrælar Syndarennar/ þvi hvor han Syndena æþer/han er Þræll Syndarennar/seiger JEsus/Joh. 8. Vier eigum ad hrædast og skielþast hns Ogurlega Naþn/en Men vanbrwka þad a Stundum/til ad Liwga/Stela og Svijkia. Hvorier erum vier þa? Þeir ad vijsu/fyrer hvorra Skulld Guds Naþn lastad verdur medal Heidingianna / Rom. 2. Vier seigiunst vera skylduger ad hlijda hans Orde/ og giora þar epter / en Men dauþheyrast þar vid/sitia under eirne Predikun hyrdulauser/og ganga þadan Avaxtarlauser/og sumir mæ valla þangad koma/ sem þad er um Hond haþt. Hvad erum vier þa? Forgleymanleger Tilheyrendur/en ei Giorendur Ordsins / Jac. 1. J Krosse og Mootgange siest allra best Audmykten fyrer Gude. Sa audmyker sig riettelega under hans vollduga Hond/er kysser a Vond DRottens med Packlæte/þvi han er hns san ur Læresveirn: En þar vill a Stundum nærsta miog aþbera/Þai Men eru Opolenmoder under DRottens Krosse. Sumer skioota sier undan hans sæla Oke a allar Lunder med Oleyþelegu Moote/og leita þeirra Bragda er Gud banad heþur. Er slijkt ad audmykia sig fyrer Gude? Fiærre fer þvi. Hvorier erum vier þa? Lijker þim er lijda so sim Þioþar

og Mordingiar / edur þeir sem falla inn i annars Embætte/ 1. Pet. 4. Þvi hvar er vor Audmyke fyrer Gude / ef vier vilium eckert þola hans vegna? Og so sem vier erum nu skylduger a allar Lunder ad audmykia oss fyrer Gude vorum Skapara / So vill hann og ei helldur ad vier skulum forsmaa vora Brædur i Heimenum/ þvi hvør hann seigest elska Gud/ enn hatar sinn Broodur/ hann er Lÿgare seiger Johannes/ þvi ef hann ecke elskar sinn Broodur/ hvørn þann sier/ hvørnenn maa hann Gud elska/ þann hann sier ecke / 1. Joh. 4. Nu er eckert Verkfære Kiærleikans handhægara enn Lÿtelæted / þvi þad verdur af øllum Elskad : Og med þvi dregur Kiærleikurenn alla til sÿn/ þa sem ecke Kiærleikann hata/ Þess vegna seiger Paulus um Dygd þessa/ Kiærleikurenn er ecke mikelaatur/ hann þÿstur ei upp/ hann leitar ecke epter þvi sem hans er/ 1. Cor. 13. Og sokum þess ad hann visse/ ad Lÿtelæted var Band Kiærleikans/ þa bÿdur hann Christnum Monnum/ ad þeir hafe hvør annan sier i Virdingum ædra/ Phil. 2. So hefur og JEsus læted øllum sÿnum Læresveinum þad Bodord epter/ Hvør sem vill stoor vera ydar a mille/ hann sie hinna Þienare / Matth. 20. Hefde Johannes vered ægiarn Nafnbooma Dyrdar/ þa hefde hann ecke neitad þvi ad hann Elias edur Spamadur være/ þar hann mætte þo hvørtveggia um sig jaata/ Þviad þad Eina vitnar Christur Matth. 11. um hann / Enn Annad hans Fader Zacharias/ Luc. 1. sem ædur er sagt / Og allt Foolked hiellt hann fyrer Spamann/ Matth. 21. Enn hann villde a moote hvørugu taka/ so hann giæfe Gude Einum Dyrdena. Ecke Olÿkur i þessu sÿnum Herra / hvørs Eingell hann var / Mal. 3. Hvør þa hann var af hinum Skriftlærda kalladur goode Meistare/ svarade hann : Hvad kallar þu mig Goodann? Eingenn er Goodur nema Gud eirn / Marc. 10. Ecke neitade Herrann þvi ad hann goodur være/ villde þo ecke þiggia þann Titel af hans Munne/ er hann so kallade epter sÿnum Þanka / þad er eins goodann og Pharisæi voru/ hvøria Folked kallade Gooda/ af þvi þeir gaafu so miklar Olmusur/ Enn Saducæos Riettlaata/ af þvi þeir gaafu eckert epter/ tooku ei helldur neitt ranglega fra neinum. Hvad til

til St. Pall sijnest lijta/Rom. 5. er hañ seiger/ ad valla mune piñast nockur sa ed fyrer Riettlatañ deyr/ þvi kañskie einhvør piñdest sa ed dæe fyrer Hiñ Gooda. Þañ veg forsmæde Christus og hañs Eingell Johañes fænijta Virdingu Heims þessa/ Og ei var St. Pall ødruvijs lyndur er hañ seiger/ 2. Cor. 12. Eþ eg hroosade mier/ þa være eg þotingeñ Dære/þvi eg skal satt seigia/ eñ eg hlijþest vid þad/so ad eingeñ þeinke um̃ mig fram̃ yfer þad sm̃ hañ sier mig vera/ edur heyrer aþ mier. Johañes seiger hier i Gudspiallenu : GReide ÞJer GUtu DROTTeñs. Ord þau eru tekeñ aþ Esaiæ Spædoms Bookar 40. Cap. þar ed so stendur/ Þar er Rodd eins Hroopanda i Eydemorku/ Greide þier Gøtu DRotteñs / og gioreð slietta Vegu Gude vorum i Obygdeñe. Þegar Meñ ridia eitn Veg og giora hañ færañ / taka Meñ i burtu Stoorgrijte z allar Ojøþnur so greidt verde um̃ ad fara. Oþse og Hroke Veralldar þessarar eru Torþærur þær sem Guds Veg hindra i Mañsins Hiarta. Hvadañ kiem: Strijd z Barætta Maña amedal/ Hvadañ kiemur Oþund og Blþbwd/ hvadañ vex Agg/Reide og Præta/hvadañ uppstijgur Agyrne og Fiedrættur/hvadañ fram̃kiem ur Mord og Mañslag/hvadañ er þad ad Meñ tonlast og tiggiast iñbyrdis/þar til þeir um̃ sijder mættu verda uppetner? Zach. 11. Kiemur ecke alltþvilijkt aþ hiñe bølvudu Drambseme/er Sathan iñrætet i Mañaña Hiørtu? Hvørneñ a Zions Konungur ad rijda um̃ slijkañ Veg/ þegar sa Drottnareñ kiemur til sijns Musteris ? Mal. 3. sem er Mañsins Hiarta. Þeir breiddu sijn Klæde a Veigeñ fyrer hañ/þegar hañ sijdarst iñreid til Jerusalem/ og dreiþdu Kvistū Triaña a hūs Gøtu/ Þad var Audmyktar z Fridar Merke/ Þvi a og i burtu ad ridia Stoorgrijte Drambsemeñar z Oþstopañs aþ hūs Leid/ecke med Lijkamlegū Verkþærum/helldur med Guds Orde/um̃ hvørt Pall skriþar/ 2. Cor. 10. Ad Vopn Herþarar vorrar sieu ei Lijkamleg/helldur kroptug fyrer Gude/nidurbriotande Hugreñingarnar/og allar Hæder sem ad upphefþast a moote Guds Þeckingu. Eñ hvoriar munu þær Hæder vera ? Þad eru medal añara Fioll Drambsemeñar/þvi eckert motstrijder sañre

Guds Þeckingu meir eñ Þeckingarleise sijns eigeñ Overdugleika/ sm̃ er Moder Drambsemeñar. Þvi seiger Rødd Hroopandans/ ad aller Dal er skule uppheþiast/ og øll Fioll og Hæalsar nidurþryckiast. Hvad er þad añad eñ þad sem Guds Mooder syngur i Lofkvædenu / Luc. 1. Dramblætum hrinder hñ af Stoole/ eñ upphoof Lijtelæta. Og þott ad þsse Hroopandans Rødd/ sp̃ie sier i Lage um̃ Guds Nææd i Evangelio/og Lagþæring allra Hluta fyrer Christum/ hvørrar Frumkvødull Johañes var/ þa ma eg þ vel heimfæra uppa þetta Efne/ þvi Fætækum/ þad er andlega Voludum z Audmiwkum i Hiarta verda Guds spiolleñ bodud/ z þ ecke sijdst vegna þeirra Orda er hier standa skom̃u sijdar i þessum 40. Cap. Esaiæ/ a þeñañ Hætt. Þar er ein Rødd sm̃ seiger: Predika þu/ og eg sagde: Hvad skal eg predika? Allt Holld er Hey/og allt þess Ægiæte so sem Bloom Akursins: Grased uppþornar og Bloomstred fellur af/ þa Ande DRottens blæs a þad/ ja Folked er Hey. Hvar er þa seiged mier/ hvar er þa allt vort Atgiørfe/ og allt þad Meñ dramba af i Heimenu? Er þad Audur z Rijkdomur? Fallvallt er þ/ og giører margañ vondañ/þ ablast med Ahyggiu/ eñ tapast med Sorg. Og nema Meñ giøre so sem Jacob bijdur þeim rijku / Cap. 1. Ad hroosa sier i siñe Lægingu/ þa er þad Volædenu verra. Er þad Metord og Virdingar? Eñ David seiger Madureñ blijfe þo ecke leinge i Heidrenum/ Ps. 49. og Þrældomur eru þau reindar. Er þad gøfugt Foreldre og Afspreinge? Eñ vier erum þo aller af Adam komner: Hañ var Vilæge Guds wr Paradijs: Fyrer hvøria Søk/ er oss alkuñugt/Gen. 3. Fegurd og Prijde Lijkamans/ þ er fallvallt/þvi Blomstred fellur af seiger Esaias i 40. Cap. Eirn Siwkdomur fær þvi øllu umbreitt : Þvi þegar þu tijptar DRotteñ / þa følnar øll þeirra Fegurd/fagur Bwñadur z skrautleg Klæde/Ps. 39. Þad saade eitn af þeim gømlu / ad være eins og ef Þioofureñ stærde sig af Snøruñe. Þrootkur og Styrkleike Lijkamans? Eñ Hesturen er eñ þa sterkare/þvi skylldu Meñ þa ecke hañ virda. Eñ hiñ Almættuge hefur ei Lyst a Styrkleika Hestsins/edr a Footleggium Mañsins/

hia

hia DRottne eru þeir vel þockader/ sem hann Ottast og til hans Myskunar vona/ Ps. 147. Hvad er þa framar / sem Madurenn kunne so ad metnast af? Kunnatta og Visdomur er mest tignad i Heimenum / og er hin agiætasta Guds Giøf / enn so er hann bestur / ad hann sie med Guds Otta kryddadur/ þad vottar St. Jacob/ seigiande: Ef nockurer vijs / edur med Skynseme gæfadur medal ydar / þa auglijse hann Verk sijn i goodre Umgeingne med skynsamlegu Hooglæte / Cap. 3. Og hvad eru aller vorer Vitsmuner fyrer utann þetta? Pall seiger/ad þeir sieu Hælfverk/ 1. Cor. 13. Og hvad meira er/ ad þeir eru einskis verder / og jafnvel skadleger / nema þeim Guds Otte og Kiærleikenn fylge. Þvi seiger Postulenn enn aptur/ 1. Cor. 8. Ef einhvor þykest nockud vita/ þa veit hann þo enn nu eckert/ so sem vita byriar / Enn ef nockur Gud elskar/ hann er fæddur af hønum. Og þoott ad Skynsemenn z Vitsmunerner sieu ein sw hin besta Guds Gafa/er hann Giæska hefur sæmt oss med/þa verdur henne med Drambsemenne so spillt/ad hun verdur Oþite argare/ þvi seiger Paulus/ 1. Cor. 3. Eingenn ville sialfann sig. Ef nockur þykest Vitur vera medal ydar i Olld þessare / hann verde Heimskur so hn Vitr verde. Þar skilst mier Postulenn meine/ad hn skule giæta ad hvad lijted hann veit/so hann stære sig ecke/þvi Skynseme Veralldar þessarar seiger hann/ er Heimska hia Gude/ 1. Cor. 3. Nu þo ad allar þessar Guds Gafur/ sieu harla goodar / ef þær eru riett brwkadar/ þa er samt þess ad giæta/ ad þad er ecke vort eiged/ og hann a frialst/sm þad allt liente/ad taka þad fra oss a hvørium Tijma/sm vier þad vanbrwkum. Af øllu þessu siaum vier / hvad lijted ad þad sie/ er daudleger Menn brwka til Stærelætis / giætande ecke þess/ ad Vidingenn ellter þann/sem hana flijr/ enn flijr fyrer þeim hana ellter/ ef ei annarstadar/þa hia Gude. Postulenn seiger til Gal. 6. Ef nockur þykest vera nockud/þar hn er þo ecke:t/ hn viller sitt Hiarta / Enn ef vier eckert erum/ þvi vilia Menn þa krefia þess/ so sem annarar vita Skulldar/ad vier sieum virdter af Monnum. Ei seige eg þad/ ad þeim skule ei Heidur veita / er Heidur heyrer / Rom. 13. þvi þad er Guds

Bod.

Bod. Nitt seige eg/ ad þeir sem vid eiga ad taka / skule ecke una þvi Illa/þott af slijku meige bera a stundum/ þvi sa sem jatar þyrer Gude / þad hañ eckert sie i hañs Auglite/ og þad af Alvøru og Hræsnislaust/þa sie eg ecke ad hañ þurfe meir ad syrgia fyrer Virdingu siñe/ helldur eñ hiñ/ sem ecke er eñ nu fæddur. Nia oss er eckert gott / þvi skylldum vier stæra oss? Nia oss er margt illt/ þvi skylldū vier ei skamast vor? Oss kañ margt illt til ad falla/þvi skylldum vier ecke jafnañ hrædder vera? Oss kañ sialfa margt illt ad henda/þvi skylldū vier ecke jafnvel hrædast oss sialfa og leggia af ad forlæta oss uppa þad sem eckert er. Ef vier jatum þad fyrer ødrum ad vier eckert sieum/og meinum þad ecke/þa svijkium vier adra. Eñ ef vier meinum þad og þeckium þad sem vier vel meigum meina og þeckia/eñ hegdum oss ecke þar epter/þa Svijkium vier sialfa oss. Gud sa sem er allt i ollu/ 1. Cor. 15. Hañ lijtelæckade sig þiña vegna/ Syndugur Madur / og þu sem ecke ert neitt i neinu / Villt ecke briota Odd af Oflæte þijnu hañs vegna. Gud seige eg eñ nu lijtelæckade sig til ad verda Madur/eñ Madureñ vill þo ecke lijtelæcka sig til þess / ad verda eirn Ande med Gude. Þess meir sem þu audvirder þig fyrer Gude/þess meire verdur hañ i þier/ og þess stærre sem hañ i þier verdur/þess verdur þu stærre i honum/þvi Gud moostendur Dramblatum/eñ Lijtelatum giefur hañ Nad/seiger Jacob/ Cap. 4. Og hvad hellst sem stoort edur mgiætt kallast/þad er alleina stoort og mgiætt i Gude / og fyrer utañ hañ / alldeilis eckert. Hvar fyrer Pall seiger : Hvor hañ hroosar sier / Hañ hroose sier i DRottne/ 2. Cor. 11. Þar fyrer/nær sa Guds Madur hefur upptaled allt þad/ er adrer reiknudu sier til Gylldis/sem er/ ad hañ være Hebreskur eins og þeir / Israels Madur eins og þeir / Abrahams Sæde eins og þeir/ Christs Þienare eñ framar eñ þeir/Hañ hafe ervidad meir eñ þr/ optar i Hæska vered eñ þeir/ þa endar hañ med þessu Atkvæde/Ef hroosa skal/þa vil eg hroosa af þeim Hlutum er Veikleika mijnum vidkoma/2. Cor. 11. og eñ framar seiger hañ/Cap. 12. Eg mun miklu fegnastur hroosa mier af Veikleikañū/so ad Mattur

DRott-

DRottens byr i mier/ þar fyrer em eg vel til Frids i Veikleikanū/ J Forſmænenē/ J Naudunū/ J Ofſoknunū/ J Angiſtenē fyrer Chriſtum / þvi þa eg er veikur / þa er eg mattugur. So er þar nu eingen Rijkdoomur/ eingen Styrkleike/ eingen Heidur/ eingen Fegurd/ eingen Skynſeme/ eingen Mattur/ eingen Dyrd/ eingen Prijde nema i Gude alleina/ og eckert þad Men̄ kune ad vegſamaſt fyrer/ nema einſamul og hræſnislaus Audmykt fyrer hon̄um. Þvi vil eg enda þetta mitt Tal til ydar Guds Born med Pals Ordum/ af Piſtlenum til Gal. 6. Þad verde mier ecke/ ad eg hrooſe mier nema af Kroſſe DRottens vors JEſu Chriſti/ fyrer hvorn mier er Heimuren Kroſſfeſtur/ og eg Heimenum. Honum DRottne JEſu med Fodur og heilogum Anda/ einum og preſtum Odaudlegum Konunge/ og alleina Rijkum/ ſie Lof og Heidur / Kraptur og Styrkleike / Æra og Vegſemd / ſogd og ſungen af ollum Tungum Eingla og Manna/ nu hiedan i fra og ad Eilijfu / AMEN.

# A Joola Nottena.

Gudſpialled / Luc. 2. Cap.

U Þan̄ Tijma. Og þad bar til a þeim Dogum / ad þad Bod gieck wt fra Keyſaranum Auguſto / þad Heimuren allur ſkyllde Skattſkrifaſt. ( Þeſſe Skattſkrift hooſt fyrſt upp þa Cyrenius var Landſtiornare i Syria. ) Og þeir fooru aller ad lata Skattſkrifa ſig/ hvor til ſin̄ar Borgar. Þa foor og Joſeph af Galilæa wr Borgenē Nazareth/ upp i Judæam/ til Davids Borgar Bethlehem/ af þvi ad han̄ var af Hwſe og Kyne Davids/ ſo ad han̄ liete Skattſkrifa ſig þar med Mariu ſinē Feſtar-Konu Oliettre. En̄ þad ſkiede ſo/ þa ed þau voru þar / ad þeir Dagar fullnuduſt/ ad hun ſkyllde fæda / og hun fædde ſin̄ Frumgieten̄ Son/ og vafde han̄ i Reifum/ og lagde han̄ nidur i Jotuna/ þvíad

hun fieck eckert añad Rwm i Gieſtaherbergenu. Og Fiarhyrdarar voru þar i ſama Bygdarlage um̃ Grandana vid Fiarhwſeñ / ſem geimdu og voktu yfer Hiord ſiñe um̃ Noottena. Og ſia þu / þad Eingell DRotteñs ſtood hia þeim / og Guds Byrte liomade i kring um̃ þa / og þeir urdu miog Ottaſlegner. Og Eingelleñ ſagde til þeirra: Hirded þier ecke ad hrædaſt. Siaed / eg boda ydur mikeñ Fognud / þañ er ſkier ollu Foolke / þviad i Dag er ydur Lauſnareñ fæddur / Sa ad er Chriſtur DRotteñ i Borgeñe Davids. Og hafed þad til Merkis / ad þier munud fiña Barned i Reyfum vafed / og lagt vera i Jotuna. Og jafnſnart þa var þar hia Einglenum / mykell Fiolde Himneſkra Herſveita / ſem lofudu Gud og ſogdu: Dyrd ſie Gude i Upphædum / og Fridur a Jordu / og Moñum goodur Vilie.

# Exordium.

SKielfeleg Ognan munde veſoglu Mañkyne hafa ſtaded af þvi hrædelega Straffe med hvoriu hiñ Riettlaate Gud fargade hiñe vantrwudu Verolld a Dogum Noa / nema hañs Giæſka hefde giort Saattmaala vid Mañkyned / ad hañ framar ecke villde Eydeleggia Jordena med Vatns-Floodenu / og þiſſu til Merkis ſett Bogañ i Skyeñ / ſeigiande: Þegar þeſſe Boge verdur i Skyenu / þa vil eg miñaſt a Sattmaalañ a mille Guds og allra lifande Skiepna / af ollu Hollde a Jordunñe / Gen. 9. Med þeſſum Hætte lyſte hiñ Naadige Gud Fride yfer Jordunñe og þeim þar iñe bwa. Og er þad vyſt ad hañ hefur litted under eins til þeirra ſem a hañs Eingetens Sonar Nafn trwa mundu. Fiærre ſie þvi ad Regnbogeñ kyñe þvi ad vallda / ad Gud yrde Mañenum Naadugur / ei helldur þurfte hañ ad laata miña ſig a þad hañ giora villde / jafnvel þott Ritningeñ ſo tale ad Maña plagſid / Aller Hluter eru opner og nakter fyrer honum / Hebr. 4. Eñ þar JEſus ſitur til hañs hægre Handar / og hñ fier þar Lioo-ma ſiñar Dyrdar & Jmind ſiñar Guddoomlegrar Perſonu / Heb. 1. voru Hollde Jklædda / og biddande fyrer oſſ / þa maa hañ ei añars eñ miñaſt ſiña miklu Myſkunſemda / ſm̃ verid hafa i fra Upphafe / ſydañ hñ lofade ad Kviñuñar Sæde ſkyllde ſundur mola Hoggormſins Hofud / Gen. 3. Bid þier eins Teikns af DRottne þinum Gude / ſagde DRotteñ til Achas / hvort helldur þad er nidre i Undirdiwpunum edur a Hædum uppe / Eñ hañ ſagde: Ei vil eg þeſſ bidia / ſo eg freyſte ecke DRotteñs / Þa ſagde Spaamadureñ / So heyred þier þa af Hwſe Davids / Hvort er þad oflyted / ad þier þiaed Meñena / þad þier eirneñ villed angra miñ Gud / fyrer þvi mun DRotteñ ſiaalfur giefa ydur eitt Teikn / Sia þu Ein Jomfrw mun Barn Gieta / og eirn Son Fæda / og hañ mun hyn kalla Jmmanuel /

Eſa. 7.

Esa. 7. Þetta er Teikn hiñs mikla Guds og DRotteñs vors JEsu Christi / hvør ad er Eingell Sattmalañs a millum Guds og Maña/Mal. 3. Hañ er øllum til Merkis settur / ecke i Skyum Himeñs / helldur Fæddur af eirne Jomfrw / a medal vor hier a Jørduñe / til Stadfestu þar um / ad þeir fæe aller Kvittun Syndaña, sem a hañs Nafn trwa/ Act. 10. Sæl eru þau Augu er siaa hvad þier siaed/sagde Endurlausnareñ vid sijna Læresveina/ Luc. 10. Eñ ecke talade hañ alleina um þad / ad lijta sig og heyra med wtvortis Skilningarvitum / Marger saau hañ og hneixludust a hønum / þeir saau hañ / og þar var eckert gyrnelegt a hønum / Esa. 53. Þeir saau hañ og byrgdu fyrer Siooner hønum / Luc. 22. Þeir saau hañ og hræktu i hañs Andlit/Matth. 26. Þeir saau hañ/og saau und er eins sijna Villd a hønum. Eñ so sem Gud sette siñ Boga i Skyeñ til þess ad hañ være Nadar/Teikn øllum Møñum. Og hefur hañ þo sialfum sier geimt ad straffa þeirra Ogudlegt Framferde/ sem hañs Nad forsmadu/ so hafa þeir marger sied Christi Pioons Mind hier i Nadeñe/ er siaa munu hañ reidañ og Ognarlegañ/ þegar hañ kiemur i Skyum Himeñs med Magt og miklu Vellde/ Luc. 21. Eñ ef vier viljum vita um hvørla Sioon hañ talar/ þa heyrum hvad hañ sagde vid Thomas Postula/ Joh. 20. Af þvi þu saast mig Thoma/ þa trwder þu/ Eñ Sæler eru þeir sem ecke siaa/ og trwa þo. Þad er ad siaa JEsum Christum Guds og Mariu Son / voru Hollde klæddañ / med Augum hiñs iñra Mañs oss til Riettlætis / til Helgunar og eilijfrar Sæluhialpar gefeñ / 1. Cor. 1. Oss seige eg/ sem ad i Syndeñe erum gietner/ og i Syndeñe fædder/ Psalm. 51. Reideñar Børn/Eph. 2. og Guds Oviner af Natturuñe/Rom. 5. Þesse Dyrdar fulla Sioon verdur ydur z øllu Mañkyne frambodeñ i Lofsaung heilagra Guds Eingla/Þar þeir syngia: Fridur a Jordu / Og Møñum Goodur Vilie. Og viljum vier a þessare Hatijdis Noott þesse 4. Ord nockud giør yfer vega/og af þeim hugleida/ hvørsu Gledelegur ad þesse Fridur sie / og hvørneñ vier eigum hønum ad taka. Til þessa Erindis Framkvæmdar virdest ad hialpa oss vor Nyfædde Immanuel/ Fyrer Krapt siñar Forþienustu / A M E N.

## Vtleggingeñ.

HVad mun þvi vallda / Brædur mijner / ad hiner Himnesku Andar eru so glader a Fædingar Nottu Mañkynsens Endurlausnara? Ecke þurftu Þr Frelsis vid/ þvi þeir hofdu ecke syndgad. JEsus hafde Abrahams og ecke Einglaña Sæde uppa sig teked / Hebr. 2. Hvad mun þa vallda Gladværd þssare? Guds Sonur er ad soku þeirra Herta/ eirneñ epter Mañdoomenum/ Hefde hañ beded siñ Fodur / þegar hañ var i siñe mestu Angist staddur vor vegna / þa munde hañ hafa giefed honum meir eñ Tolf Legion Eingla / Matth. 26. Einglar

komu og þioonudu hønum/ þa hañ var hart nær yfergiefeñ/ og so ad seigia Andskotanum ofurselldur/ þad hañ freistadur yrde/ Matth. 4. Fyrer þvi var þad ecke ad undra/ þott þeir gladst hefdu/ ef hinum Nÿfædda Syne Guds hefde nockur Neidur edur Vpphefd hlotnast/ Eñ þad maatte ecke so kalla/ þvi Paulus talar so hier uṁ/ Phil. 2. Ad hañ hafe lÿtelæckad sialfañ sig/ takande a sig Þioons Mind/ og ordeñ Møñum lÿkur. Þad fyrsta hañ sæ þessa vesæla Heims Lioos/ var hañ lagdur i Eirn Stall/ Luc. 2. Og skøṁu þar epter vard hañ Landflootta/ Matth. 2. og uṁ allar sÿnar Æfe-Stunder hafde hañ ecke þar hañ kyñe Høfde sÿnu ad halla ad/ Matth. 8. Þvi sÿnest so sem ad hañs Kiorum være ecke so miog ad fagna i þetta siñ. Hvad þa/ Brædur mÿner? Vier vitum epter St. Pals Muñe/ ad Einglarner eru þioonustusamer Andar/ wtsender þm̃ til Þioonkunar/ er Sæluhiaalpena erfa skulu/ Hebr. 1. Og þott ad vier sieum Vesæler og syndüger/ þa er þo meire Glede hia þeim i Himnenum/ yfer einum Syndara/ sem Ydran giører/ helldur eñ yfer Nÿu og Nÿutÿu Riettlaatum/ Luc. 15. Þar af er audsæit ad þÿsar Guds Nersveiter hafa so teked Ast foostre vid oss auma Meñ/ þott vier sieum þeim ad øllum Edlisháttum Olÿker/ ad þeir glediast yfer sierhvøriu þvi Happe/ er nockur af oss hlÿtur/ Eñ ef þeir so glediast yfer allre Giæfu vorre: Þvi mundu þr þa ecke Beniu framar lÿsa þessu Føgnude/ þegar oss a Naturkÿma uppraṅ sw Sool/ er alldrei hefur nockur fegre yfer Heimeñ skined/ og þegar oss sw Heill ad Høndum kom/ af hvørre allra Guds Barna/ Rÿkra og Fatækra/ Hærre og Lægre Stiettar/ nalægra og fiarlægra/ fæddra og ofæddra/ tÿmañleg og eilÿf Heill og Hamingia/ uppspretttur og framflÿtur. Þess gietur Johañes/ Cap. 1. Er hañ seiger: Ad af hñs Fyllingu høfū vier aller medteked Naad fyrer Naad. Þar fyrer lioomar hiṅ Guddoomlega Birte i kriṅgum Hyrdarana/ so sm̃ vitnande þar uṁ ad hñ være i Heimeñ boreñ/ sem ad er Lioome Fødursins Dyrdar/ Og Imind hañs Guddomlegrar Persoonu/ Hebr. 1. Fra hvøriuṁ Lioosañs Fødur/ ad øll Good Giøf/ og øll fullkomeñ Giøf kiemur.

Jacob. 1.

Jacob. 1. Hvorium og þocknast heþur ad i sÿnum Syne skule øll Fylling bwa. Col. 1. Jæ sialþ Guddomsins Fylling/ hvør ed bygger i hønum Lÿkamlega/ Col. 2. Þad er i hañs Blessudum Mañdoome/ er hañ aþ voru Hollde og Bloode heþur uppa sig teked/ og giort Hluttakande Guddoomlegrar Náttúru. Æ oss auma og synduga Meñ/ vier siáum ecke fyrer Blindu Holldsins/ hvad miked oss veitt er i JEsu Holldtekiu/ Mirkur vors Skilnings fær þad ecke høndlad/ so sem þad er. Eñ Guds H. Einglum er jaþnañ standa fram̃e fyrer hønũ/ Matth. 18. Þeim er alkuñug Sæla sw er øllum Guds Børnum er tilbweñ/ hvørte vier tapad høþdum i Adams Falle/ Þeim eru og ecke Okuñugar Pisler Fordæmndra er kveliast munu i Augsyn heilagra Eingla/ seiger Johañes i hañs Opeñberingum/ Apoc. 14. Þvi er ecke ad undra/ þo Einglarner fagne þar hiñ añar Adam/ sm̃ er DRottiñ aþ Himnum/ 1. Cor. 15. Var i Heimeñ boreñ/ til ad frelsa oss fra øllum þeim Oskøpum/ þvi þeir elska Mañkyned/ Eñ vissu ad i JEsu Fæding var Møñunum gieþeñ sa Kostur/ ad forlÿkast vid Gud/ og setter verda i hañs Sonar Rÿke/ Col. 1. Nu er þad vÿst ad søñu/ ad vier ecke ad fullu þeckium hvad vier mist høþum/ edur hvør Olucka oss bweñ være/ Nema Guds Sonur være i Heimeñ komeñ synduga Meñ Sæluhoolpna ad giøra/ 1. Tim. 1. Eñ þo mættum vier ad so mikllu Leite þeckia vort Andlegt Volæde/ og so miked heþur oss sagt vered af hiñe eylÿfu Dÿrdarvist i Himnarÿke/ ad eþ vier legdum nockurn Hug a vort Mæl/ þa mundum vier allshugar þegner verda/ ad vier høþum hana aptur þeinged/ og rooa øllum Arum ad þvi/ ad vier sleptum heñe ecke aptur ad nÿu. Eg hefe noog sagt hier um̃/ þegar eg seige þad med Ordũ Esaiæ/ hvøriu Synder vorar til Leidar koma. Ydar Synder seiger hañ/ skilia a mille Guds og ydar/ z ydar Ranglætingar vallda þvi/ ad hñ byrger sitt Andlit þyrer ydur/ z vill ydur ecke Bæna heyra/ Esa. 59. Nu vitũ vier þ/ ad vier liþũ ecke eina Stund æn Syndar. Heyred hvad David Konungur talar um̃ allt Hollд/ Ps. 14. Ps. 5. og 10. og 36. Salomon Prov. 1. Esaias 59. Þar er eingeñ Riettlætur/

lætur/ & ecke eirn/ þar er eingeñ skyniande/ og eingeñ sa ad Gude leite/ Aller hafa þeir afviked/ aller til samans eru þeir Onyter ordner/ þar er eingeñ sa ed Gott giøre/ og ecke eirn. Nu seiger Paall/ er hñ fæꝛer þesse Ord til sijns Maals/ Rom. 3. Nu vitū vier ad hvad sm̄ Løgmaal ed seiger/ ꝥ seiger ꝥ þm̄ sm̄ under Løgmaalenu eru/ so ad aller Muñ-ar verde tilbyrgder/ & allur Heimureñ sakfalleñ vid Gud. Eñ ef Guds Sonur være ecke i Heimeñ komeñ til ad frida fyrer oss/ þa værum vier aller under Løgmaalenu/ & eñ þa i vorū Syndū / þviad Løgmaaled er ꝼ Moysen wtgiefed/ eñ Naad & Sañleike er sken fyrer JEsum Christ-um/ sagde Baptista þegar hñ hoof Christne Boded/ Joh. 1. So ad-skilia nu Synder vorar a mille Guds & vor. Seiged mier þa/ er ꝥ ecke mikellrar Glede og Fagnadar vert/ ad hñ er oss i Heimeñ boreñ/ sem heiter Im̄anuel/ Esa. 7. þad er Gud med oss. J hvørs Nafne hiñ næduge Gud hefur til siñar Christne talad/ þad er til allra þrra sm̄ a hñs Nafn trwa/ Esa. 54. Þott ad Fiøll ꝥsse hverfe a bak aptur/ og þesser Hælsar wr stad hrærest/ þa skal mijn Giæska ecke fra þier vijk-ia/ og Sattmaale mijns Fridar ecke vid þig skilia/ seiger DRotteñ þiñ Myskunare. O hvørsu gledelegt er ꝥtta/ þegar eirn faarmædur Synd-are/ hvørs Samvitska vitnar a moote hønū/ ad hñ hafe eckert añad eñ Daudañ forþienad/ þegar hañ skige eg/ hutar til þeirrar Ognarlegu Tijdar/ nær Konungar Jardareñar & Høfdingiarner/ & hiner Rijku & hiner Volldugu/ seigia til Fiallaña & til Biargaña/ falled yfer oss/ og hylied oss fyrer Auglite hñs sm̄ i Hæsætenu situr / og ꝼ Reide Lamb-sins/ Apoc. 6. Þess er og ad giæta/ Bræder mijner/ hvør hñ er/ sem ad vier vorū Missætter vid/ Ofridureñ er ad þvi Leite hrædelegur / sem hñ er Volldugur til/ sm̄ heriar a Landed/ Hvør er sa Konungur/ er hñ fæꝛer Hernad a moote ødrū Konunge/ ad hñ eige setie sig nidur & raad-slage/ hvørt hañ giete med tiju Þusundū mætt hønū/ sem med tuttugu Þusund kiemur a moote hønū? sagde DRotteñ vid Læresveinana/ Luc. 14. til ad sijna þeim hvør ad være Munur Guds & Maña. Munum vier gieta svarad hinum Riettlæta Gude einu a moote Þusund/ ef hañ

vill

vill i Doom vid oss ganga/Job.9. han er HErran/ vier erum Prælar
ner/ han hefur skapad oss/ vier vandskøpum oss Daglega/ hn hefur
oss allt Gott giort/ vier giorum allt Illt a moote honu. Han vegur
Fiollen a Vigt/ z Hælsana med sijnu minsta Fingre/Esa.40. Vier
megnum ecke ad giora eitt svart Haar hvijtt a vöru Høfde/Matth.5.
Nia honum er eingen Umbreiting edur Mind til Umbreitingar/Jac.
1. Vier eru ein Vatnsboola/Vier megnu ecke hinu minsta Vesælinge
hid minsta Mein ad vina an hns Vilia/Han hefr Valld til ad kasta
Lijfe og Sælu i eilijfan Elld/ Matth.10. Hvør vill fa stadest nær
slijkur HErra er reidur. Hvorsu Fagnadarsæll er pa Bodskapur þsse
ad vier Fridkeipter eru/ z i Sætt komner vid han sm allt Valld hefr
bæde a Himne og Jordu? Matth. 28. Og ef vier vilium ganga nær
og skoda/ hvør ad sie Mismunur Logmalsins sem fyrer Moysen er
giefed/Joh.1. og Evangelij sem Christur hefur fært oss wr Skau
te Fodursins/pa er þ i morgu Hlutu audsied: Logmaled var med stoor
te Ognan z Reidarþrumu wtgiefed/ ef ad sapnvel eitt Kvikinde sner
ter Fialls-Ræturnar sagde Gud/Exod.19. pa skal pad Dauda deyia.
Hid fyrsta Nya Testamentesins Evangelium/er med Lofsaung hei
lagra Eingla bodad/ z almenelegu Fridar Bode yferlijst. Allt Fialled
Sinai skalf z titrade af Guds Ognan. Þar saust Leiptraner z Elld
ingar/so ad Moises/s var hin meste Fullhuge/z so var kunugr Gude/
ad han talade vid han eins og Madur vid Man talar / Exod. 33.
Han sagde: Eg em hræddur og skialfande/ Hvad Paulus tiltekur til
Dæmis um þsse stoor Undur/Ebr.12. En hier lioomar Guds Byrte
i kryngu Hyrdarana. Og Eingillen seiger vid þsa vesalings Smala
Men: Otteſt ecke/ þviad i Dag er ydur Lausnaren fæddur / sa ad er
Christur DRotten i Borgene Davids. Men hallda ad Einglarner
hafe geinged a mille Guds og Moisen/til ad afhenda honu Logmal
ed/eda ad vijsu a einhvørn Hatt þioonad ad þssu/pad seiger Stephan
us hin fyrste Pijslarvottur Guds / nærre med berum Ordum tvisvar
sinnum/ Act. 7. Pad stadfester St. Pall/Gal.3. og Hebr.2. En ei
hefreiſt

heyrest ad þeir hafe þa blijdlega til hañs talad/ sem ei var Von / þvi
Logmaaled verkar Reide / Rom. 4. Og er vegna Yfertrodsluñar
wtgiefed/Gal. 3. Eg vil ecke fa mier til Orda þær grimu Hoctaner/
er Logmaalenu fylgia. Ef þu hlijder ecke Raustēne DRottens Guds
þijns seiger Moises/ Devt. 28. Þa skulu allar þessar Bolvaner koma
yfer þig og hendla þig. Bolvadur skalltu i Borgeñe vera/ bolvadur a
Akrinum/bolvud skal þijn Hyrdsla vera/ hvar þijnar Afgangs Leifar
eru/og bolvadur skal þiñ Lijfsens Avoxtur vera/ þiñ Jardar Avoxtur
og þiña Sauda/ Bolvadur skalltu vera nær þu geingur iñ / bolvadur
nær þu wtgeingur med ødru fleira/ og allre þeirre Olucku er Logmaal=
sins Yfertrodsla steiper yfer syndugar Mañeskiur z hrædelegt er upp ad
telia. O/ hvorsu er þad Olijkt hønum/ er sagde: Komed til mijn aller
þier sem Erfide drijged z þwnga erud þimder/eg vil endurnæra ydur/
Matth. 11. Hañ medtook Tollheimtumeñ z Bersynduga/ æt og drack
med þeim/ Luc. 15. Til ad ævijña þa til Guds Rijkis/ þolde Bryxle
og Amæle vondra Maña/þeirra vegna. Hañ ed sagde vid hina Ber=
syndugu Hoorkonu/hafe eingeñ fordæmt þig/ so fordæme eg þig ecke/
helldur gack burt og syndga ecke framar / Joh. 8. So ad þad mæ
satt jæta/ad hiñ næduge Gud hefur ecke um Skor fram spæd um siñ
Eingieteñ Son/ Esa. 42. Sia miñ Þioon þañ er eg añast/ og miñ
hiñ wtvalde/a hvorium eg hefe Velþocknan/eg hefe høñu miñ An=
da giefed/ hñ mun Doomeñ wtflytia medal Heidiña Þiooda/hñ mun
hvorke kalla nie hroopa/og hñs Raust mun ecke heyrast a Strætuñu/
þañ brakada Reir=Legg mun hañ ecke i sundur briooka / og þañ lijtt=
logande Hørkveik mun hañ ecke wtslockva/ hañ mun kieña ad hallda
Doomeñ med Sañleykañu/ hñ mun ecke Moglunarsamur nie hrædeleg
ur verda/so ad hñ a Jørdu Doomeñ uppbyrie og Eyarnar muñu epter
hñs Logmaale vænta. Þegar þier nu þetta hvortveggia samañbered/
Brædur mijner/og ef þier þykest nockru vid Gud seker vera/ þa er lijk=
legt ad þier munud fiña til i Hiarta ydar / hvorsu Gledeleg ad sie
JEsu Fæding. Gydingum var Fognudur þsse allra fyrst bodadur/so sm

Von

Von var til/so ad Spaadoomarner yrdu uppþylldar/ þss gieta þeir St. Paall og Barnabas/ Act. 13. er þeir sogdu vid þa: Til ydar byriade fyrst ad tala Guds Ord/ eñ vær adrer hoþū þss sijdañ noted/ þar fyrer spaaer Esajas so uñ Jerusalem: Myrkred mun hylia Jordena/ z Dim̃ añ Þiodernar/ Esa. 60. Eñ Drottiñ mun uppreña yþer þier/ og hñs Dyrd mun siaast yþer þier/ z Heidingiarner munu ganga i þijnu Liooſe. Þvi lijser Eingilleñ i Samtalenu vid Hyrdarana/ þar hñ seiger: Eg BOda ydur mikeñ Fognud/ þñ er skier ollu Foolke. Hier er ecke Gydingur nie Griskur edur Schyta / ecke Þræll edur Frelsinge / Gal. 3. Helldur aller eitt i Christo JEsu/ Col. 3. Epter hñs Logmaale munu Eyarnar vona/ seiger Esajas 40. þad eru Heidnar Þiooder/ So plagar Ritningeñ þær optlega ad kalla/ Þetta meigum vier bæde ad Raun og Naþne tileinka oss/ sem byggium Hoolma þeñañ/ ad soñu heþur Guds eilijþ Fyrerhyggia skoted oss wt under hid ytsta Heimsins Skaut/ kañ skie z ad morgū þykia meige/ ad vier hoþū Var-Hluta fared aþ marg re Fullsælu Heimsins/ eñ þar a mote hoþū vier ecke ad seigia aþ marg re þrre Olucku z Andstreime/ sm̃ añarstadar i Heimenū plaagar synd uga Meñ/ svo vier erum skyllduger ad vidurkieña/ ad Gud heþur vel til vor giort/ eþ vier kyñū med ad fara. Eñ hvortveñ sem þssu er vared þa heþur hñ ecke giort oss Aþskipta aþ Andlegū Hlutum/ sm̃ mest a rijdur. Stutt Stund er þad / ad vier eigum vid þetta Tijmañlega ad bwa/ hvort helldur oss geingur med edur moot. Eñ eins vel er oss JEsu Blessud Tilkoma i Hollded bodud z odrū/ eins vel hañs Þijna og Daude/ eins vel hañs Vpprisa/ eins vel hañs Vppstigning/ eins vel Vtsending hins heilaga Anda/ a ongu aþ þssu hoþū vier nockurn Skort/ helldur eñ hvor oñur Þiod i Heimenum/ z eþ eg maa seigia/ þa erū vier betur hier med forsorgader/ eñ marger/ þvi hoþū vier aungvu sijdur Ordsok til ad fagna og Loþ sijngia hinum gooda Gude i Hiort um vorum/ Col. 3. Helldur eñ allur Heimureñ/ Jaa oll Guds Christ ne/ hvar hellst sm̃ hun er i Heimenū/ hun maa jaata þad satt ad vera/ er Paulus seiger / Eph. 2. uñ Heidingiana. Nu eru þier i JEsu Christo/

Christo/sem madur piærre vorud/nælæger ordnet fyrer Blood Christi/ Þvi hañ er vor Fridur / hañ sem giører eitt aß bædum / og Gyrdingu Midveggiarens heßur nidurbroted. J kringum Jerusalems Mustere var eirn Stein-Beggur/ þangad leyßdest Heidingiū ad koma/eñ ecke leingra/so ad Þionustugiordeñ ecke saurgud yrde aß Umskornū Moñ um/ og til þessa lijtur Postuleñ i þessū Ordū. Eñ sijdañ Guds Son-ur er i Heimeñ boreñ/þa er i Christo hvørke Vmskurn nie Yßerhwd/ Gal. 5. þvi seiger og Paulus aptur/ ad hañ aßmæd haße Løgmaal Bodordaña/ sem var iñeßaled i Setningunum fyrer sitt Hollð/so hañ giørde i sialßum sier tvo ad einum nijum Mañe og giørde Frid/Eph. 2. Þetta er medal añars sa Fridur er Einglarner boda / Fridur millum Guds og Maña/þvi Gud er Madur ordeñ/Fridur millū Him ens og Jardar/ þvi Gud heßur i Christo alla Hlute forlijkad vid sig/ (semtiande Frid fyrer Blooded hañs Kross) hvørt helldur þeir eru a Jørdu edur a Himne/Col. 1. Fridur vid heilaga Guds Eingla/hvørra Samneyte vier høßdū aß oss broted/þvi seiger Paulus/ad vier sieū kom ner til Fiallsins Zion / og til Borgar Guds lißanda Jerusalem hiñar himnesku og til margra Þusunda Eingla/Heb. 12. Fridur a millū Gydinga z Heidingia/þvi þad er i Jesu blessadre Hingadkomu fram-komed sem Drotteñ spaer/Zach. 8. Seigiande: A þeim Døgum skulu 10. Meñ (þad eru marger) aß øllum Þioodum og Tungumaalum / þrijßa i Klædaßalld Gydingsins/seigiande: Vier viliū med ydur fara/ þvi vier heyrum Gud er med ydur. Þesse er Jmmanuel/ hvør ed fyrst var sendur til Fortavadra Sauda aß Hwse Jsraels / Matth. 15. Eñ hañ haßde þo adra Saude er ecke voru aß þvi Saudahwse/ er hoñū byriade og þangad ad leida/Joh. 10. So þar yrde eitt Saudahws og eirn Hyrder. O hvilijkt Dypt Audæfaña z Guds Speke/hier maa þad satt iata er Petur med stoorre Vndran sagde fordū/Act. 10. Er Gud sende hañ til ad skijra Cornelium og hñs Heima-Foolk. Nu reine eg i Sañleika sagde hñ/ad þar er eckert Mañgreinar Alit hia Gude/helld ur ad sierhvør eirn / aß hvørre Þiood sem hañ er/ sem hañ Ottast/ og

fremur

hañ / og so miked af þvi sem Gud hefur lanad / sem mier næger og
mier soomer ad brwka / þa skal Fatæktenñ alldrei kasta mier i neitt
Nugar-Vyl/ef eg kañ i hana ad rata/ Eg vil hyrda þad Gud giefe-
ur/eñ ecke festa þar vid Hiarta mitt / þa mun mier þykia mikia fyrer
ad missa þad. J Dag ræd eg fyrer ødrum so ad aller hlyda mynu
Bode z Bañe sm̃ eg er yferskipadur/þ Valld vil eg brwka i Hoofe z
ecke med Ofsa neinum/þvi þar kañ ad koma/ad þr ræde fyrer mier z
kuñe eg af þm̃ nockurn Ojofnud ad þola/þa lyd eg hñ mz betre Sam
vitsku/hafe eg ecke ødur til hn̄s ukied. So skal Madr bwa sier i Hag
eñ/a medañ allt leikur i Lynde/kom̃e þ ecke uppa er vier Raad fyrergior
um/þa er þvi Omake vel spillt/ Alldrei visse eg Abata meire Skada/
þvi ad minsta Koste hugsū vier eige so Jllt a medañ/ og lyklegt er ad
vier munū ecke stæra oss so miøg af Velmagtene þegar vier bwumst
vid hverutveggiu. Nu þott ad allt þetta sm̃ eg hefe sagt/eige ad fysa
oss a ad lyda Þoleñmoodliga þañ Kross er Gud oss a Herdar leggr/þa
er þo ad hroosa fra Kiørū fram yfer alla DRottens Krossberendur/
sm̃ ecke einasta taka a moote hñs Ogun an Møglunar/helldr z hafa
Glede og Jnde af þvi ad lyda nockud þ Christi Saker. Eg vændest i
Upphafe St. Paals Ordū/ad hñ skrifar/Gal. 6. Þad verde mier ecke
ad eg hroose mier af nockrū Hlut/utañ af Krosse Drottens vors JE-
su Christi. Þegar Paall brwkar þetta Ord sm̃ hier stendur ad HRoo-
sa/ þa merker þ ecke so ad stæra sig af einhveriu / svo sem ad fagna
z gledíast af þvi/z ad hafa Ynde þar af. Sama Orda Tiltæke brwk-
ar hñ Rom. 5. segiande: Og ecke einasta þ/helldur hroosum vier oss
einnig edur gledium oss af Hørmungunum/vitande ad Hørmungeñ verk-
ar Þoleñmædena/eñ Þoleñmæden Reinsluna/eñ Reinslañ Vonena/eñ
Voneñ lætur alldrei til Skam̃ar verda/þviad Elska Guds er wthellt i
Hiortū vorū fyrer heilagañ Anda sm̃ oss er giefeñ. Þetta eru merke-
leg z gullvæg Ord/sieu þau riett yfervegud. Hvar fyrer gledur hñ sig
i Hørmungunū? þviad Elska Guds var wthellt i hñs Hiarta þ Hei-
lagañ Anda sm̃ honum var giefeñ. Heyrū þ Endurlausnareñ sagde

vid ſijna Læreſveina. Eg ſkal ecke læta ydur Munadarlauſa/ helldur
ſkal eg ſiæ ydur aptr/ Joh. 14. Pad giørde ſa bleſſade Herra ad ſønu
epter ſijna Vppriſu/ eñ hn̄s ſijneleg Viſt mz þm̄/ droo þa ecke langt á
Veg hefde hn̄ ecke ſendt þm̄ H. Anda af ſijnu Fødur/ Þvi ſagde hn̄:
Pad batar ydur ad eg fare i burtu hiedañ/ þvi/ nema eg fare i burtu
hiedañ/ kiemur ecke Huggareñ til ydar. Þeſſe er hiñ ſame H. Ande þ
hvern ad Paulus ſeiger ad Elſka Guds ſie wthellt i ſitt Hiarta/ hun
giører Chriſti Ok ſætt/ z hn̄s Byrde lietta/ Matth. 11. Hun velldr þvi
ad hn̄s Bodord eru ecke þung/ 1. Joh. 5. Hun deyþer alla Kvøl/ alla
Hrygd/ alla Armædu Veralldar Þiſſarar/ ſa ed hana heþr fyrſt ødlaſt/
hn̄ þarþ ecke Mootlætenu ad kvijda/ hn̄ Foottredur allar Hørmungar/
hm̄ er Heimureñ Kroſſþeſtur og hn̄ Heimenu/ þ ſie eg berſijnelega á
Chriſti Poſtulu er þeir voru glader af þvi ad þr mættu lijda þ JEſu
Naþns ſkulld/ Act. 5. Pad ſie eg a hn̄s H. Þijſlarvottu langt fram ept
er Aþe Chriſtneñ/ ad þr geingu til herþreleguſtu Kvala z Þijſla mik
lu gladare helldur eñ adrer til Gieſtabods. O Herra Gud/ fagurt mā
þm̄ vera Himnarijke a ſijdañ/ hveriu Gud er ſo ſætur midt i Hørmung
unu/ ad þeir fiña ecke til þra þ Elſkuñe til hañs ſem typtar þa. Ad
þetta ſieu ecke Jiktur/ helldur ad þvilijker Guds Viner ſieu til/ þ votta
eg med Pals Ordu/ er hañ ſeiger/ 2. Cor. 12. Eg em vel til Frids i
Veikleikanu/ i Forſmaneñe/ i Naudunu/ i Oþſookñunu / i Angiſtene
fyrer Chriſtu/ þvi þa eg em Veikur/ þa em eg Mættugur/ og þ er þ
ſama ſm̄ Drotteñ heiter hier Læreſveinunu/ er hn̄ ſagde: Ydar Hrygd
ſkal ſnwaſt i Fognud. Ecke meinte hañ einaſta þa Sælu Von er þr
ættu vijſa med hm̄ eilijþlega i hn̄s Dijrdar Rijke/ helldur og Huggun
Guds Anda i Mañraununum/ þvi alldrei voru þr an Mootlætis hier
a Jørduñe/ og ſamt ſkriþar Paulus/ ad þr ſieu ſo ſm̄ hryggver og þo
jaþnañ glader/ 2. Cor. 6. Nu þott oſſ vante miked a ad vera ſvo Al
giørder i Elſkuñe til Guds/ ſm̄ þeſſar Drotteñs Hetiur voru/ þa eigu
vier ſamt ad kieppaſt epter þra fullkomnu Dæme/ ſo miked ſm̄ oſſ er
møgulegt / og hugga oſſ i øllu Mañraunum vorum vid epterkomande
Sælu/

Sælu/ vitande þad ad hin lietta Birde Hormungarenar sem varer um Augnablik/ hun ablar oss yperguæfanligrar Dyrdar eilijfrar Þijngd"/ 2. Cor. 4. Og þetta er þ Paulus seiger/ Rom. 5. Er eg strax awminnest ad Þolenmædeñ verke Reinsluna/ Reinslan Vonena/ eñ Voneñ læte eige til Skamar verda/ Hvar fyrer? Þviad Trwen/ er Voneñe jafnan filger/ hun er Vera fra Hluta sem koma skulu/ Ebr. 11. Hvers vegna þr ed bera Christi Ok/ þr eiga vyst Himnarijke/ þ er Pantz epterkoman de Farsælldar/ vid hvern hñs Brwdur gledur sig/ þar til hñ kiemur/ og innleider hana i Lambsins Brwdkaup/ so þegar hun hryggest af Mootlætenu/ þa gledst hun eins miked edur meira af þre Dyrd s vid oss mun framkoma i eilijfu Lijfe/ hverrar eige eru verdar Mootlætingar þessara Tijma/ Rom. 8. Þetta wtmælar vor Lausnare mz nærsta føgru Dæme hier i Gudspiallenu/ þar ed hñ seiger: EJn KOna nær hun skal Fæda/ þa hefur hun Hrygd/ þviad heñar Stund er komeñ/ eñ þa hun hef ur Barned fædt/ misnest hun ecke þss Harmkvælis fyrer Fagnadar sak er þviad Madur er i Heimeñ boreñ. Hvad vita Meñ ecke i þessum Heime fyrer Veralldar Nofdingia/ z þ fyrer lijtil z Ovisst Laun? Jæ/ margur vogar Lijfenu og kañ skie siñe eilijfre Velferd a stundum/ og endest ecke til ad niota þss er hñ ætlar sier til Launa. O Guds Børn/ þvi skylldum vier þa telia epter oss ad lijda nockud fyrer Himnarijke / fyrer hin eilijfu Launeñ/ fyrer þad dijrmæta Hnossed/ af hveriu þr all drei sleppa kuña sem riettelega Skeided hlaupa? 1. Cor. 9. Fyrer hina kostulegu Riettlætesins Coronu/ 2. Tim. 4. sem þeim er afsijdis løgd er hafa barest goodre Baraattu/ hallded Trwne z goodre Samvitsku? Eiñ Madr sa ed sitr i Tign z Heidre/ mun hñ ecke þacka sijnu Fød ur/ ad hñ hefur hñ so vijselega uppaled/ ad hñ mæ reiknast þrar Aru verdur a sijnu fullvordeñs Alldre? Mun hñ nockud telia þau Vandar. Høggeñ er hñ hefr sleigeñ vered? Og hversu ættu vier þa allar Þacker ad kuña vorū himneska Fødur sa ed tuktar sijn Børn upp til eilijfs Lijfs/ til himneskrar Konungs Tignar/ til ad lifa og rijkia med hønū eilijflega? Hver mun þa misnast þra Tæranā s hñ hefur fellt i þssū

Eymd.

Eymdardãl/nema hñ sm̃ ad hefur heilt þm̃ i siñ Siood/Ps. 56. z þa alla Reidu þerrad þau af sinna Barna Augum/ Apoc. 7. Þa mun þ verda uppskored i Dyrdenne sm̃ hier var sæd i Normungenne/ Ps. 126. þa mun þra Gledesaungz fagurt læta i hinne biortu Jerusalem er Guds Dyrd upplioomar/ Apoc. 21. Hverra Op z Veinan ad Heimsins Børn um var til Spotts og Adhlæturs hia Sorgar Vøtnunũ i hinne dimu Babilon/ Ps. 137. Verølldu þessare. Hverrar Æru og Vegsemdar oss unne ad niooka hin blessada Guddoomsins Þrenning fyrer JEsu Christi Bloods Krapt og Forþienustu / AMEN.

# A þañ Almeñeliga Bæna Dag.

## Pistillen / Esajæ. 55. Cap.



LEited DROTTeñis a medañ Hañ er ad finna / Kalled A Hañ a medañ Hañ er nælægur. Sa hiñ Oguðlege læte af sÿnum Veige / Og Illvirkeñ af siñe Huxan og snwe sier til DROTTeñis/ þa mun Hañ Myskuna hønum/ Og til Guds vors/ Þviad i hia hønum er mikel Fyrergiefning.

## Exordium.

I Gamla Testamentenu tilsette DRotteñ Eina Hatijd sem halldast skyllde Arliga i hinum Siøunda Mannude/og a Tijunda Deige sama Mannadar er Meñ sijdañ kallad hafa Hreinsunar Hatijd. A þeim Deige var boded ad Israel skyllde þvijnga Sæler sijnar/þad er siælfa sig so sm̃ þar um̃ mæ lesa/Levit. 16. Þesse Hatijd er ad søñu afteken̄ i Nyia Testamentenu med øllum sijnum Foornum. Oss næger sw eina og algiørda Foorn sem Einusiñe er iñ boreñ i þad Allra Helgasta af hinum Ypparsta Biskupe Sælna vorra/ Ebr. 9. Eñ samt er þo Ydraneñ fyrer Syndernar ecke afteken̄/so leinge sem vier ecke leggium af ad Syndga/so leinge meigum vier ecke leggia af ad ydrast/eñ þad mun ei verda fyrr eñ Lijkame Syndareñar verdur med øllu afmædur / Rom. 6. Þvi ætte med riettu allt Christens Mañs Lijf ad vera ein Hreinsunar Hatijd / edur ad minsta Koste ættum vier ad giefa oss nockra Stund a hverium Deige til ad ydrast og jæta Synder vorar. Sa sem ætlar sier ad syndga nær Synden flijgr ur hønum i Hug og ydrast sijdañ/hañ er ecke betre eñ sa sem ætlar ad draga Ydranena undañ til Daudans/þvi hañ veit ei nær hañ deya mune. Nu erum vier oss medvitande þess Brædur mijner/ ad þar falla so marger Dagar wr hia oss/og kañ skie þvi verr ad nockrer þeinkia hier allsiallðañ til/Þvi er nu þesse Dagur af

Konung-

Konungenum tilſettur/ad hañ ſie vor Føſtu og Bæna-Dagur. Gud giæfe ad hañ være þar epter halldeñ af oſſ med allre Gudrækne ſo ſem hañ er Naudſynlegur/og ad ecke ſyndußt þeir ſem giøra Gaad wr Føſtuñe/ med hverre þo Guds heilager Meñ hafa þreyngt Bænum ſynum i giegnum Skyeñ Fordum Daga medañ Guds Foolk hiet Guds Foolk og Chriſtneñ Chriſtne/ eñ ſydañ hun hiet Loami/ þad er ecke mitt Foolk / og Meñ yfergafu hiñ lifanda Gud / margur hver/ eñ giørdu Magañ ad ſynum Gude/ þa er Faſtañ vordeñ ad Athlætre/ſo vel ſem øll Alvørugiefne i Guds Ploonkan: Meñ hallda epter Blødunum eñ hafa ſlept Axvextenum/ſo David munde ſeigia ef hañ nu lifde / Eg hulde myna Sælu i Føſtum og þad vard mier ad Bryxle/Pſ. 69. O oſſ Aumar og Rænulauſar Mañeſkiur/mun hønum Faſtañ mislyka ? Er ſeiger hia Joel / Cap. 2. Snweſt til myn af øllu Hiarta med Føſtum og Græte og Harme. Og ſo ad þier vited ad þad ecke er ødruvys i hinu Nyia Teſtamentenu /. þa vil eg ſpyria ydur ad hvert Gude mune ecke hafa þocknaſt Faſta Cornelii ſem var heidiñ Madur ? Er hañ ſagde vid Petur/Act. 10. Nu er alla Reidu hiñ Fioorde Dagur ad eg hefe faſtad/og er eg beiddeſt fyrer uñ hina Nyundu Stund i mynu Hwſe / þa ſtood hiaa mier Eiñ Madur i hvytu Klæde er ſagde vid mig: Cornelii/ þiña Bæna og Ølmuſugiørda er minñſt i Guds Auglite. Mun Endurlauſnaranum hafa þoott Faſtañ Onyt ? Er hañ ſagde vid Lærefveinana þegar þeir gætu ecke wtreked Tunglmeina Diøfuleñ/ þetta Diøfla Kyn verdur ecke wtreked nema med Føſtum og Bænahallde. Verde Diøfulleñ wtrekeñ af ødrum med Føſtum og Bænahallde/ Matth. 17. Þvi ſkylldu Meñ ei kuña ad reka hañ wt fraa ſiælfum ſier ? Verde Diøfulleñ wtrekeñ med Føſtuñe/Þvi ſkylldu Meñ þa ei kuña ad fraa Gude Jñbygt med heñe ? Þvi þad er vyſt ad hvadañ ſem Satan er wtrekeñ/ þar vill Gud byggia/ þetta ſeige eg ei þeſſ vegna ad Faſtañ viñe til nockurs i ſiælfre ſier/ eñ þad vitnar allt Guds Ord ad Bæneñ verde krøptugre fyrer hana / Faſtañ mæ eckert æn Bænareñar/ Bæneñ verkar optlega æn Føſtuñar. Faſtañ hiælpar til ad drepa hiñ Gamla Mañeñ ſem er Andſkote Bænareñar og alls Gudrækeligs Framferdis/ ſie hun ecke i þeirre Veru giørd/ þa er hun Hræſne. Heyrum hiñ gamla Syrach hier uñ/ Sa ſem þvær ſig epter hiñ Dauda/og ſnerter aptur dauañ Mañ / Til hvers gagnar hañs Þvottur ? Syr. 35. So er og ſa Madur er faſtar i ſynum Syndum/og giører aptur þær ſømu / Hvad vañ hañ med þvi ? Ad hañ audmykte ſig/ Hver mun heyra hañs Bæn? Eſajas kieñer oſſ i upplesnum Piſtle hverneg þeirre ſøñu Føſtu eige Hattad ad vera / ſem er / ad hiñ Ogudlige faſte fyrer ſyn vond Verk og Illvirkeñ fyrer ſyna Hugſan/ og þañeg ſkipar hañ DRottens ad leita. Vil eg þvi wt af þeſſum Eſajæ Ordum Hugleida ad þeſſu Siñe hverneg vier eigu ad leita Guds hvern vier ſo margfalldliga ſtyggt høfum.

Hiælpa oſſ O HErra til ad giøra ſo þetta þitt Verk/ ad vier þig fundeđ og fundnum halldeđ gietum. Bænheyr þad goode Gud fyrer Jeſum Chriſtū/ Am.

## Vtleggingeñ.

HVerneg vier eigum Drotteñs ad leita/ þarf ecke langt epter ad leita/ þad seiger sialfur Drotteñ oss/ Jer. 50. med þessum Ordum: A þm̃ Døgum skulu Israels Syner koma med Børnum Juda/ þr skulu ganga an aflaats Grætande z leita Drotteñs Guds sijns. Gydingar leitudu hñs a hiñe sijdurstu Kvalañа Nottu mz Sverdū og Staungū/ med Lycktū og Logbrøndum/ Matth. 26. Vier skulum ei þañeg leita Drotteñs s̄ medkieñū ad vorar Synder hafa kvaled hñ s̄m var fræskil eñ Syndurunum/ Ebr. 7. Hverneg skulum vier hñs þa leita? Med Harmþrungnū og Sundurknosudum Anda/ þad er med sañre Ydran. Vegeñ vitū vier ad søñu aller til Christū/ eñ ꝥ fellur ecke øllū so liett ad ganga hñ. Eina christelega Ydran er hægt ad nefna/ eñ ꝥ veiter morgū bægt ad giøra hana/ jafnvel þoott oss breste alldrei Efne þar til/ sem eru Synder vorar og Ranglætingar/ er Dagliga stijga upp i Himeneñ fyrer Gud. Margur læst ydrast z jaata sijnar Synder fyrer Gude/ Eñ eg Ottast ad þegar Gud lijtur af Himnū ofañ yfer Mañaña Sonu/ þa mune hñ fiña so marga Pharaons/ Exod. 20. Sauls/ 1. Sam. 24. Jeroboams/ 1. Reg. 13. og Achabs/ 1. Reg. 21. Ydran/ þad er/ Hytur fyrer utañ Kiarna/ Sky fyrer utañ Vatn/ Visnadar Eykur Avaxtarlausar tvisvarsiñū upprættar so sem Judas Postule ad Orde kiemst i sijnū Pistle. Eñ Davids/ 2. Sam. 12. Josuæ/ Jos. 7. Ezechiæ/ Es. 38. z Peturs/ Matth. 26. Lijkar munu færre vera/ hvad Gud Nadarsamliga betre. Hvad er ꝥ þa Brædur M. s̄m eins christeleñs Mañs Ydran a ad hafa til ad bera? Tvent er ꝥ sierdeilis. 1. Ad hun sie heit og alvarlig. 2. Ad hun sie ecke ofsein. Hvad hinu fyrsta vidvijkur/ þa veit eg ad søñu ad hiñ Naaduge Gud þiggur opt af oss Viliañ fyrer Verked/ hvi hñ þecker vorn Vanmatt og Ofullkomlegleika/ Eñ i Ydranar Verkenu heimter hñ af oss ad vier fram̃ eggiū allt ꝥ vier til hofū og drøgū ecke af. Sa s̄m kiemur fram̃ fyrer Gud til ad jaata sijnar Synder/ z ad bidia um̃ Kvittun a þm̄/ z ecke wtheill er sijnu Hiarta af fremsta Megne ꝥ hønū/ ecke lætur Saalar og Lijkamans Krapta verda samtaka i þvi ad sundurmeria sitt Hiarta mz I-

hugan

hugan sina Illgiorda z Guds Gæsku/ syns Toomlætis og hns Riett-lætis/ sina Epta z Helvytis Ellds ö þau hafa forþienad. Eg veit ecke seige eg/ hvad miklu hñ er betre eñ Ananias z Saphira sm leyndu aþ Verde Akursins/ Act. 5. Þvi eins og þau lugu ad heilögū Anda er skynbarliga bioo i Postulunum/ So mætt þu og vita/ad nær þu kiem-ur i þiñ Bænastad/ þa stendur þu i Guds Auglite sm alla Hlute sier/ z jafnvel hin insstu Filsne þyns Hiarta rañsakar. Gabba þvi ecke Gud med toomre wtvortis Hegdan/ þvi hñ lætur ecke ad sier hæda/ Gal. 6. Og hafe þig sa Glæpur nockrū siñū hendt/ þa vit ad þ er ein hrööp-leg Synd i Guds Auglite/ jæ stærre eñ allar þynar Synder/ þvi hun apturhelldur öllū hinū er þu ætter ad afþvo med heitū Ydrunar Tær um. Giør þvi Ydran i Nafne Drottens/ giør Ydran seige eg/ og lat þig angra þ af Hiarta ad þu hafer kastad Hendunū til so vegleg-rar G.ds þionustu. Villt þu vita hvad mikla Ydran ad Gud heimter af þier fyrer Syndena/ þa vill hñ ad Beiskia Ydranareñar skule sam blooda Sæterd Syndareñar/ þar fyrer / nær þu med siælfum þier les þitt Synda Registur fyrer Gude/ þa hugleid hve miked Gaman edur Glede þu hafder af sierhverre Stoor-Synd sem þig rekur Miñe til/ z bid Gud ad slæ a Hiarta þitt mz Moisis Sprota/ ad þu meiger hrygg last so miked sm þu gladdest ædur/ og verder þu hier um Bænheyrdur/ sm æn alls Efa verdur ef þu bidur heitt / bidur Iduglega/ Joh. 16. og bidur i JEsu Nafne/ þa munt þu einkis Imissa/ þvi sw Glede er þu af syndsamligu Athæfe hafder/ z ablade þier Hrygdar i Guds Aug lite syddañ/ hun mun þier mz einū ædre og meire Fögnude endurgolldeñ verda. nær þu siñur ad þu ert koittur vid Gud/ eñ sloppeñ wr Diöf-ulsins Nete. Þess gietur Paulus/ 2. Cor. 7. Þier erud epter Gude hryggver vordner/ so þier hafed eingañ Skada af oss feinged/ þvi sw Hrygd sm epter Gude er/ hun verkar Ydran til Hiælpræðis/ hverrar ei þarf ad ydrast. Þegar þier vilied ydrast Brædur mynner/ og þier setied ydur uppa Doomstool ydar Hiarta til ad dæma sialfa ydur so þier verd ed ecke af Drottne dæmder/ 1. Cor. 11. þa æltted ecke Syndena epter

Mannligum þanka/ Vier fyrergiefum oss alltijd nockud sialfer/og finnū eitthvad til Afsøkunar. Konan bar Søkina uppa Orminn/enn Madurenn gaf Konunne Skulldena/ Gen. 3. Aaron seiger/ Eg kastade Gullenu i Elldenn og þar af vard þesse Kalfur/ Exod. 32. Eins erum vier aller Skapferner enn nu i Dag ef vier latū oss sialfraada/ og viljum ecke lata Guds Anda vid oss raada. Metum þvi ecke Synder vorar epter vorum Þootta/ helldur epter hans Heilagleika/ hans Riettlæte/ moote hverium þær giørdar eru. Metum þær epter JEsu saaru Pijslum/ epter þvi Lausnargiallde sem Gud hefur loked i voru Nollde/ þa munū vier sia hvad reidur Gud er þm̄ Syndunū s̄ oss jafnvel þyker lijted i spunned a stundū/ Þoott allur Heimurenn flyte i Taarū um̄ allan sin̄ Alldur/ þa megnade hn̄ ecke hina minstu Synd ad hreinsa i Guds Auglite/ nema hans Sonar Forþienusta giørde þau gylld. So stoor/ so afskræmeleg er Syndenn fyrer hns Doome/ enn Christs Forþienusta verdur eingum til Lids/ nema þeim sm̄ af Hiarta lætur sig angra Syndena/ ætla þvi ecke ad þu muner komast af vid Gud mz einfoonlis Jaatningu Munns sins/ nema Hugur fylge Maale. Sa sem alleina jaatar Syndena med Munnenū/ enn angrar hana ecke i Hiartanu/ hann er eins og sa er tekur Vmbuderna af Saarenu/ enn leggur ecke Plaastrenn þar vid. Guds Sonur er ad søkiu i Heimenn komenn til ad lækna þ sundurknosada/ Es. 61. Enn hvernig a hn̄ ad lækna þig Barn mitt ef Hiarta þitt er heilt z Obroted. Þar er eirn Gull-Kalfur nærre þvi i hvers Manns Hiarta/ þ er Verolld þsse sm̄ ad sierhver af oss hefur einhvern Afgudnad a/ epter þvi sm̄ hver er Lyndur til/ og jafnvel þeir sm̄ Gud elska vilia/ þeim er eins hættad og þeim/ er ad søkiu tilbaadu Gud i Jerusalem enn offrudu þo a Hædunum/ 1. Reg. 22. So er þad fyrer oss aumum Mønnū/ vær seiaumst laata Gud ganga þ/ enn flester af oss hafa þo einhveria Hiaa-Trw/ Sumer Rijkdoom/ Sumer Metord/ og sumer Munade sijna/ og a medann vier høfum þa fram̄ hia Gude/ þa er hætt vid ad vier ecke af Hiarta ydrumst/ þvi eigū vier ad brenna vid þa eins og Moises giørde vid Kalfenn/ hann brende hann til Ósku/ kastade honum i Vatn/ z liet

allann

allan Israel drecka hn i sig til Blygdunar sialpn þm/ ad þeir høfdu
leked Egyptalands Sotvirdingar framhia hinn lifanda Gude/ Exod.
32. Svo eign vier ad høndla vid Rachels Skwrgod þeim er hun situr
a og leiner/ Gen. 31. þad eru Neimuglegar Gyrnder Sælna vorra /
sem ecke eru audsienar øllum. Vier eigum ad læta Moisen brena þær
til Osku med Elldingunum af Sinai / og kasta þeim i Flood vorra
Ydranar Tæra/ og drecka þær sialfer upp so þær hverþe/ Exod. 32.
Alldeilis/og verde ad eingu/ þ vardar ad litlu þott vier støndn rauder
aþ Ovirdingu i Guds Auglite med Ephraim/Jer. 31. þvi hn sier þær
hvert sem er/Laban og Jacob kunnum vier ad pretta/Gen. 31. en ecke
Jacobs Gud/Ps. 94. þvi hn er Niarknana og Nyrnana Rannsakare/
og sier hvad i Myrkrunum er huled. Sundurrifed ydar Niørtu / og
ecke ydar Klæde seiger Drotten/Joel. 2. Gydingar pløgudu a þm Dog
um ad ryþa syn Klæde nær þm rann i Skap/ annadhvert þegar þm bar
nockur Sorg til Nanda/ edur þr vandlætu i Guds Stad/eins z Nræsn
aren Caiphas lietst giøra/Matth. 26. En hver Sorg skyllde oss meire
tilþalla en sw/ad vid høþn hinn gooda Gud styggdann/umm hvern skylldum
vier meir vandlæta en um sialfa oss / þvi eingum erum vier so margs
Ills medvitande/eþ ecke i Verkunn z Ordunum/þa samt i Nugreninng
unum. Eitt sundurrifed Fat gagnar til lytils/Sundurrydn vor Niørtu
med Ydraneñe/ z þa munn vier þinna ad jaþnvel vort Rietlæte er ecke
betra en nidlags Fat sem Esajas voltar i 64. C. þa munn vier hvad
best wllyta i Guds Auglite. Þegar vier athugum hvar þra vier erum
þallner/þa mun hann giefa oss eitt nytt Klædnad/so ad Mynkun vors
Falleysis ecke simest. Nu er þ ecke noog ad Niarta vort kløckne þyrer
Gude umm Stundarsaker/ef vier hverþn þo aptur til sømu Synda/þa
vill þad lyted gagna ad vier høfn audmykt oss þyrer Gude. Þeirre Yd-
ran er illa vared sm kggr Mannenn alleina uppa Nrygdena en ecke hurt
lekur Sektena. En vid þad er ecke ad þyliast Br. M. ad þre Ydran
er so hættad sm leiþer Mannenn ad vellta sier aptur i sama Saur. Sa
hin Oguðlige læte aþ synum vondn Vege/og Illvirken aþ sine Nug-
 san

ſan og ſnwe ſier til DRottens/ ſeiger Textenn. Nier er þad ad merkia Børn myn / ad Spamadurenn kallar ecke ad Meñ hafe ſnwed ſier til Drottens/nema vier tokū vora Illſku Breitne fra hans Auglite. Þad er alkuñugt hverſu ad hinn Gudlauſe Amon Sonur Davids Konungs breytti ſkamarliga vid Syſtur ſyna Thamar / ad hñ rak hana wt af Nwſenu/er hñ hafde vanbrwkad hennar Lijkama/2. Sam. 13. Eñ þo eigū vier eins vid Syndena ad breyta / þvi hun er ecke betra verd/ vier þeckium ecke hennar Lijte þ Blindu Holldſens/fyrr eñ Guds Ande rid ur Smyrſlum Ydranareñar a Augu vors innra Mañs/ Apoc. 3. Eñ nær hñ ſo giort hefur z vier fyrer Nad Guds þeckium vora Blygdan/ þa eigū vier mz ollu ad rydia Glæpunum burt wr Hiortum vorum/ og eingu ad leyna af þvi Satans Nerfænge ſem Gud hefur bolvad/Joſ. 6. helldur brenna þ upp til kalldra Kola/ ad ſvo miklu Leite ſem møgulegt er i þſſū daudliga Lijkama/ og Guds Giæſka fær i oſſ verkad. Og fyrer þvi ad þſſu er ſo vared/ þa eigū vier Daglega ad endurnyia vora Ydran/þvi Daglega æ hinn gamle Adam i oſſ ad dreckiaſt z deydaſt. Ecke ſeige eg þ/ad Meñ giete Syndlauſt lifad/ þad er Guds eins ad ſyndga ecke/eñ þ er Gudhrædds Mañs ad ydraſt Syndareñar z rada Boot a henne/eñ Gud tilreiknar ecke þeim ſm̄ eru i Chriſto þær Synd ernar ſm̄ ad Ovilia edur Mañligū Breiſkleika kuña ad henda oſſ/ Nitt vill hñ ad Meñ ſkule Daglega ydraſt/þvi Daglega ſyndgū vier z for þienum ecke añad eñ Straff. Gud hiælpe oſſ/ef vier ſegdum ad vier hefdum ei Synd ſeiger Johañes/1. Piſt. 1. þa drøgum vier oſſ ſiælf er a Tælar/z Guds Sañleike er ecke i oſſ. Jæ/allt vort Lijf er ei nema Synd/være þ ecke bætt fyrer Guds Sonar Dauda/ begar vier hugdū ad lifa einn Tyma Syndlauſt æfram/z vier lytū aptr nær hñ lidenn er/ þa mætte oſſ hrella vid þvi ſm̄ vier hugdū beſt ad giora/ og ſo margt Augnablik ſ er þar i/ ſo margr Þyrne. Broddur munde ſtynga Sælu vora/nema DRottens Forþienuſta hefde giort Athafner vorar gilld ar i Auglite hins ſtranga Doomara. Gud næde oſſ fararadar Mañeſkiur hverſu ad vier erū under Syndena ſellder. Sa ſ vill ſkoda Stiot

nu

nu nockra i eiñe Skoonar-Pyppu/ hñ skal leita leinge ad heñe ꝺdur eñ
hñ fær komed Auga a hana/ z nær hm̃ hef: þ fekest/ er hñ so Skiælþ-
Hendtur ad hñ varla fær vidhalldest/ so ad hñ ecke misse hana aptur.
So eru vier i Andligũ Efnũ/ vier skulũ fyrst leinge þvinga hiñ gam-
la Mañeñ ꝺdur eñ vier fañ hina blessudu Jacobs Stiørnu/ Num.
24. JEsum tiett siena/ z nær vier þ ødlast høfũ/ þa eru vorar Trwar
Hendur so Ostyrkvar/ ad þar er nærsta hætt vid ad hun kuñe ad hver-
fa oss aptur/ nema Gud styrke vora Armlegge. Jæ/ hiner bestu af oss
eru eins z fylgespakur Hundur/ hañ reñur ad søñu Vegeñ epter sinũ
Hwsbonda nockra Stund/ eñ ef hñ sier eitt Dyr/ eiñ Saud/ eiñ Hest/
eiñ Titling/ þa hleipur hñ epter þvi. So eru og vorar Hugreñingar/
vier reñum þm̃ til Guds i vorũ Bænũ under hñs Orda Heyrn/ a vor-
um Ydrunar Tijmum/ og kañ skie nockrer optlega þar fyrer utañ/ eñ
strax sem þar flijgur fyrer oss eitthvert Glis Veralldareñar/ einhver
Abata Von/ eitthvert Reide Efne/ eitthvert Broslegt sem oss þyker
Skiemtan ad/ jafnvel þott þad a stundum sie Naunganum til Hneisu
og Ohroodurs/ þegar þetta edur añad þvilijkt sm̃ Verolldeñ er full af
bregdur fyrer oss/ þa bregdũ vier opt af Vegenũ/ z hlaupũ epter þssu/
og gietũ vier þa lijtt undañfareña Synda er oss urdu so beiskar i Yd-
raneñe/ ad þar var ecke Fridur i vorũ Beinũ fyrer Guds Ognan/ Ps.
38. Ef vier latum oss villa Oflangt epter slijkum Hiegooma. Nu er
þar bo eingeñ sm̃ kuñe ad vardveita so vel sitt Hiarta/ Jæ/ eg mæ segi-
a Muñ z Hendur/ ad ecke verde a fyrer hm̃ i þssþættar Hlutum/ z þ
Daglega/ fyrer þvi siaum vier og/ ad vier hvern Dag/ jæ/ a hverre
Stundu høfũ noog Ydranar Efne/ z er þss betur/ þss optar/ þvi sa er
sier temur þad Hugarfar/ hañ lærer bæde ad sia gior epter Athøfn-
um sinũ/ so og er Lijklegt ad hñ mune ecke hverfa aptur til Stoorglæp-
aña/ þvi ef hñ so lærer ad ydrast Daglega þrra Bresta sm̃ hñ þær var-
la edur ecke vidgiort/ þa mun hm̃ i Hug koma/ hvad sært þ mune kvel-
ia hñs Samvitsku/ ef hñ skyllde rata i nockurn Ogiørning. So eigũ
vier nu ad leitast vid ad afmæ Lijkama Syndareñ"/ Rom. 6. Þad er illa
bygt

bygt ad brioota eitt gamallt Hws nidur & tilla þvi upp aftur af sömu
Kofū. Meñ skulu ecke einasta deyda hiñ gamla Mañeñ er sig fordiarf-
ar i Gyrndū Villudoomsins/ helldur æ þar ad upprysa eiñ nyr Mad-
ur sa ed life i Heilagleika & Rietlæte ꝥ Gude Afeñlega/ añars geing-
ur hiñ aftur/ og eiñ Diøfull sm̄ Einusiñe er wtrekeñ/ hñ tekur siø ad-
ra Anda sier verre/ Luc. 11. og hverfur aftur i þad Hws hvadañ hañ
wtfoor. Giætum ad hvernig þr hafa breytt sem af Hiarta hafa yd-
rast. Petur var miklu Trwarsterkare epter ꝥ hñ hafde til fulls græt-
ed þad hñ hafde Trwna mist/ Matth. 26. og fieck so meire Næd eñ
hñ mist hafde/ Act. 2. Eiñ stoor Syndare sm̄ af Hiarta ydrast hefr/
hñ er miklu lyklegre til ad standa stødugur/ helldur eñ eiñ sm̄ meinar ad
sier hafe eckert a orded/ og er af Møñum goodur halldeñ. Gude er og
miklu þægre soddañ Stoorbrota Mañs Ydran og Elska til Guds sm̄
oftast mikel er/ af þvi honū fyrergafst mikid/ Luc. 7. helldur eñ Yd-
runarlaust Meinleise þss er lyted edur eckert fiñur til Synda siña/ þar
fyrer sie Ydraneñ so heit/ so kroptug & so alvarlig/ ad ꝥ beiskest i vorre
Sælu sem ædur þotte sætt i Lyfernenu/ og ad þad kvelie oss i Hiarta-
nu/ er ædur gladde i Holldenu / so oft sm̄ vier miñumst a vorar eigeñ
Synder/ edur heyrum þær af ødrum drygdar/ og þa munum vier skyd-
ur aftur a ny samþyckiast þeim Glæpunum er DRotteñ hefur oss eitt
Siñ kvitta giefed. J Exod. 29. stendur ritad um̄ Breñefoornernar/
sm̄ & voru Syndafoorner/ ad þær ættu med heilu Lyke ad uppbreñast.
J Lev. 1. Er Kieñemøñunū skipad ad þvo Jñible soddañ Breñefoorna
og svo Fæturnar. Nu bydur St. Pall oss Rom. 12. Ad vier skulum
Offra Gude Lykame vora/ eina lifande Foorn/ heilaga/ Gude þæge-
liga/ þad er sw Breñefoorn er hm̄ lykar i hinu Nyia Testamentenu.
Þvoum vor Jñibleñ/ þvoum Hiarta vort/ bleytū þad wt i heitum Yd-
runar Tarum/ þvoum Fætur vorar af þm̄ Saurendum er þær hafa
atast i a hinū breida Vegenum sm̄ liggur til Glotunareñar/ Matth.
7. DRotteñ sagde vid Petur Joh. 13. Sæ sem þveigeñ er hañ þarf
ecke ad þvo nema um̄ Fæturnar. Frelsareñ droo hier Dæme af þm̄ sm̄

Laug

Laug edur Bad taka/ Þr þvo Fæturnar ſijdarſt þegar Likamen er allur þveigeñ. O Guds Born/ vier erum ad ſøkiu aller þvegner/ i Skyrnarlaugeñe i hveria JEſu dyrmæta Blood er wtrunned/ eñ vorar Fæ'ur hafa ſijdañ geinged a vondū Veige/ og daglega eigū vier Leid i ſt-gnū Fen og Ovege þeſſarar Veralldar. Eingeñ er ſo vel Skoopatadur/ Eph. 6. So reidubweñ ad fram̄ fylgia Evangelio Fridareñs/ ad ei ſletteſt nockud uppa. Forgiefeñs erū vier i Skyrneñe afþvegner nema vor iñre Madr ſkyreſt daglega i Tara-Floode vorrar Ydranar. Þad er ecke noog ad vera ſkyrdur i Jordan/ vær ſkulum og ſkyraſt i Mara/ Exo. 15. Þvoñ þvi Hiartad ſm̄ er Bruñur Illſkuñar/ af hveriu fram̄ koma vondar Hugſaner/ Matth. 15. Med chriſteligre Ydran/ hreinſū Fæturnar med ſama Hætte/ og hiñ Ogudlige læte af ſynū Vege/ legg ium ſo þeſſa Foorn uppa DRotteñs Alltare. Þegar Aaron hafde helgad Samkundu Tialldbwdena og Verkfære Þioonuſtugiørdareñar z lagt Breñefoornena uppa Alltared/ þa gieck Elldur wt fra Drottne z forfærde þvi/ Lev. 9. Þegar hin Nyia Tialldbwd Guds ſ̄ er Hiarta eins ængrads Syndara/ þegar hun er hreinſud og helgud med Ydraneñe/ þa mun heilagur Ande i þvi kyrtaſt i einum Ellds-Loga/ og upp kveikia i þſſ Mañs Hiarta eina breñande Elſku til Guds/ er hønū ſo margar Synder hefur tilgiefed/ ſa ſm̄ heñe hefur eitt Siñ nad/ hañ hefur nad þvi gooda Hlutſkiptenu/ hønum mun hægra ad mootſtanda Syndeñe ſo leinge hun ecke ſlockn̈/ þa er ecke hætt vid ad hū̄ læte Syndena i ſier drottna / Hun uppbreñer allt Sorp Veralldligra Gyrnda i Hiartanu. Þegar Gedeon hafde lagt Breñefoornena uppa Kletteñ/ epter þvi ſem Eingell DRotteñs baud hønū/ þa riette Eingilleñ ſiñ Staf wt er var i hñs Hende z ſnerte Foornena/ og þar ſpratt Elldur upp af Biargenu/ og forfærde Kiøtenu og hinū Oſyrdu Braudunū / Jud. 6. Legg þyna Foorn chriſteñ Madur uppa þañ Stein ſm̄ Uppbyggendur forſmædu/ Pſ. 118. Þañ wtvalda Hirningar Stein er Gud hefur ſett i Zion JEſum Chriſtū/ Eſ. 28. Þar mun Elldur wt fra hønū ganga/ Jꝛ/ eiñ breñande Elſkuñar og Trwareñar Elldur ſm̄ upp-

uppſendrar þyna Foorn/ ſo Gud ſm̃ byr i Hædunum lukte eiñ ſæleiks Jlm þar af/ z heþe eg nu ſo um̃ þ̄ nockud talad hverſu ad Ydraneñ eige Kroptug ad vera til Apturhvarfs fra Syndunū z til Mootſtødu þm̃.

Nu þott ad Meñ ſieu um̃ þ ſañfærder i Hiarta ſynu ad eingeñ kuñe ad eignaſt eilyþt Lyf/ nema ſa ſm̃ aþ Hiarta ydraſt Syndaña z lætur aþ þm̃/ þa erū vier ſo treger til þſſa Verks/ og vier lætū oſſ allt añad meir um̃hugad vera. Seiged mier/ hver er ſa ed ſeige/ þar er noog z Tyme til ad verda ryfur? til ad taka Veitſlur z Virdingar? til ad reiſa til Gieſtahods? Seiger ein Jomþru/ þar er noogur Tyme til ad giptaſt eþ heñe bydſt þ Raad ſ̃ heñe lykar? edur ſa hvers Aſne edur Naut ad fell ur i Pitt/ ad þ ſie noogur Tyme til ad draga þ upp? Eda eþ Elldur kviknar i eins Mañs Hwſe/ad noogur Tyme ſie til ad ſlockva hañ? Eñ til þeſſ ad kveikia vora Lampa/ til ad þagna Brwdgumanū Chriſto/ Mitth. 25. til ad draga ſialfa oſſ upp wr Fene Syndaña/ til ad ſlockva Bal Syndaña ſ̃ Dioþulleñ hefur uppſendrad i Hiarta voru/ til þeſſ køllū vier ad alltyd ſie noogur Tyme/ eins z heþdū vier Feſte=Bref aþ Gude uppa Lyþdagana. Þier vited hvad St. Pall ſeiger/ Gal. 5. Holld ſins Verk eru opeñber/ ſm̃ eru Hoordomur/ Saurlyfe/ Ohreinleike/ Lauſung/ Skwrgoda Dyrkan/ Fiolkinge/ Fiandſkapur/ Þrætur/ Kappgirne/ Þrætkan/ Sundurþycktia/ Flockadrættur/ Ohund/ Mañdrap/ Ofdryckia/ Oþneitſla/ og þeſſu lykt/ hvad eg ſeige ydur þ z hefe adur ſagt/ad þr ed þvilykt giøra/ erþa ecke Guds Ryke/ ſeiger hañ. Nu hafa aller af oſſ þramed eitthvert af þſſu edr þvilyku/ kañ ſkie leingſt Allt urs ſyns/ z ſumer ecke eñ nu aþlæted/ eñ vier vitū ecke nær ſagt verdur/ Þu Daare/ a þſſare Nottu munu þr þyna Saal fra þier taka/ Luc. 12. z ſumer þaa einga Advørun. Ecke kaſtar Daudeñ øllū fyrſt i Banaſængena. Margur deyr ſo hañ ſier ecke Daudañ fyrer Augum ſier/ J einu Augnabragde/ i Svefne/ midt i Syndunū kipper hañ ſumum i burtu/ Eñ þu veitſt ecke hvad hellſt af þſſu ad þier mune ætlad. Seig mier þa i Guds Naþne/ ſeig mier/ er þar alltyd noogur Tyme til ad ydraſt? er þ viſurlegt ad draga ſyna Vm̃boot undañ i Trauſte længra Lyf.

Lijkdaga/ eins og Heiþdum vier giørt Sattmæla vid Daudann ? Vor Daudastund er alltijd/ þvi skylldi vor Ydrunarstund alltijd vera/ Þu seig'/ þad tekst mier ecke/ þvi medann eg syndga get eg ecke ydrast/ þ er satt/ þvi Ydranenn kiemur ecke fyrr enn epter Syndena/ Gud giæfe ad hun kiæme þo jafnann strax ad henne drygdre/ og mundum vier sialldnar synd- ga/ fyrst þvi verdur ecke ækomid ad vier hugsum til þess nær Synden grijpur oss/ hvad heist Ydran þar verde a epter ad fylgia eff Synden æ ad verda oss yfyrergiefenn. Gud giæfe vier villdum giøra eins z Dwfa Noa/ Gen. 8. Hun flaug wt og kom aptur strax med eitt Oliu-Kvist i Munnenum sem var Fridar-Merke. Gud giæfe seige eg ad vier villdum eins giøra þegar vier flijugum wt aff Guds Ørk med syndsamlegu At hæfe/ ad vier villdum þa hverfa strax aptur i Ørkena/ og fridmælast vid Gud/ og ecke lijkiast Hrafnenum er allrei kom aptur/ Gen. 8. Br. M. So leinge sem vier erum i Syndunum/ so leinge erum vier under Guds Reide / Joh. 3. So leinge vier æn Ydrunar lijfum erum vier under Satans Vallde/ Act. 26. Vitstola mæ sa vera sem þetta vill eiga yfer Hofde sier : Enn Gud frambijdur sijna Myskunseme med þm Skilmæla/ J Dag J Dag mædann þu heyrer mijna Rødd þa forherd ecke þitt Hiarta. Ps. 95. Diofullenn heiter oss og Guds Myskunseme med þessu Skilyrde : A Morgun/ A Morgun/ enn ædur enn þesse Morgun kiemur/ þa kannt þu ad vera uppvaknadur i Helvijte og Kvølunum. Esau kom seint med Blessanena/ þvi foor hann a Mis vid Blessanena/ Gen 27. Pharao þuste epter Jsrael wt i Hafed rauda/ Exod. 14. enn villde snijra sier aptur til sama Lands er Siooren gein yfer Hofde hm/ enn þad var þa allt um seinna. O þu syndug Manneskia þu sem meinar ad þar sie alltijd noogur Tijme til ad ydrast/ þeink a þetta Dæme/ Eff þu geingur Otta laust æfram i hinu rauda Hafe bloodugra Synda z Jllgiørda/ z þeinker alldrei til Apturhvarfs/ hvad veitst þu nær Guds Reide-Flood steipest yfer þig ad þier Ovørum/ so þu gieter ecke aptur snwed. Spar- ed Tijmann seiger Paulus/ Eph. 5. Þegar vier hofum mikid ad sijsla Br. M. et oss þyker æliggia/ þa køllum vier hvern Tijma/ hvert Augna

 blik

blik ad vera dyrmætt. O seiged mier/ liggur oss a nockrū Hlut so miøg sm̃ ad komast i Sætt vid hiñ Almættuga/ þo lætum vier oss so lÿted þar um̃ ant vera. Eþ nock: slepper goodu Tækesære til ad framkvæma einhvern Hlut sier til Gagnsmuna þa hlæū vier ad honū/ eþ vier ecke heyrdū um̃ hñ/ aumkum hañ og ætelium eþ hañ er vor Vinur/ hende þad oss siælfa/ þa ydrumst vier epter/ eñ Dioþulleñ hlær ad oss ad vier forsoomū ad taka a moote Guds Giøf medañ hun er fyrer Hondum. Margt kalla Meñ Heimsku i Verølldeñe/ z hver aþ oss hlær ad ǫðrū/ eñ eingeñ er þvilÿkur Daraskapur sm̃ sa er oss marga hender/ þ er ad skioota Ydraneñe a Frest. Hañ er syndgar i þvi Trauste ad hañ mune gamall verda hañ er lÿkur þm̃ er brÿtur Skip sitt i þeirre Von ad hñ mune komast til Lands a Flaka einū. Eg heþe ædur sagt ad Syndeñ verde ecke þyrergieþeñ nema ad Ydraneñ ad nockru Leite sambiode heñe/ hveriū Deige næger sÿn Pinning seiger Endurlausnareñ/ Matth. 6. Munde þ ecke verda oss noogu þungt ad ydrast a hveriu Kvollde fyrer hvørs Dags Synder/ eþ vier heþdum þeirra Registur vel uppskriþad i Hiartanu? Þott ecke skiootum vier þvi a Frest Dag epter Dag/ Aar epter Aar/ Mun ecke þsse Byrde verda nockud þung um̃ sÿder? Sa sm̃ er ødrū hædur og a ad viña Dags-Verk/ eþ hñ forsoomar framañ aþ Deigenum/ mun hñ ecke þess betur meiga herda a sier þegar hñ tekur til Verksens? Sa s̃ heþr i Vngdoomenū lÿtels agtad Syndena Mun ecke Ydranen verda honū þess þyngre i Elleñe ef hñ a Guds Rÿke ad erþa? Vier vitū ecke hvad gamall David var þegar hñ sagde ad Syndernar væru sier ofþung Byrde vordnar/ Hvad mundu þær ecke vorded haþa heþde hñ dreiged þær undañ allt til Daudañs. Eingeñ er sa aþ oss ad hñ legge hinar þÿngstu Klyfiar a hiñ veikasta Eyk/ og þo viliū vier kasta allra vorra Lÿþdaga Syndū uppa vorn Hrygg þeg' vier erū so Ellemooder ad vier høþum noog ad bera siælfa oss. O hversu vÿselega var þ þvi giort aþ David? er hñ beidde Gud ad læta sig ecke giallda siña Vngdoms Synda/ Ps. 25. Eitt Sær er hægast ad græda medañ þad er nÿtt. So er og Syndeñ/ hun verdur best læknud ad ferskum

Gior'

Gierninge. A Morgnana faka Men̄ Læknisdom in̄ a foomañ Maga. Ydraneñ er Lækning Syndarenar/ tem þier hana Barn mitt a Morgne þyns Alldurs/ medañ þu fullhraustur ert/ Þeink a þin̄ Skapara i Vngdome þynū ædur eñ þe vondu Dagarner koma/ z þu seiger/ Þad lykar mier ecke/ Eccl. 12. Paulus skipar oss ad krossfesta Holldid/ Gal. 5. Eñ þ er lytill Kross þyrer hin̄ gamla Adam ad bana hm̄ þ sm̄ hn̄ gielur ecke hapt Skiemtan ap leingur/ þad er ad vyssu ad offra Gude þvi hallta z lamada/ Mal. 1. og mæla hm̄ med Mæler hins Framanda/ eñ Fiandanum med Israels Mæler. Þyrm Elle þiñe ef þu kant heñr ad byda/ z byder þu ecke/ þa munt þu fiña ad þu hefr eingañ Ska da nær Kvølld þiñar Æfe kiemur/ þott þ sie um̄ Middeige þyns Alldurs edur japnvel þyrr. Veit eg ad Gud hefur mørgum snwed a synū gomlū Allore/ eñ under þvi er ecke ad eiga/ þott hn̄ sie Myskunsamur/ hn̄ hepur alldrei lopad ad læta þañ kasta Ellebelgnū til ad ydrast/ s alldrei þeinker til ad apklædast hinū gamla Adam mzañ hn̄ fullhraustur var. Þu giører mig ungañ aptur so sem eiñ Ørn/ seiger David : Ps. 103. Þad er an Epa þss vegna/ ad David endurnyiade syna Ydran Daglega. Eru ecke Tolp Stunder i Deigenū? seiger Endurlausnareñ/ Joh. 11. Eg heyre Vyngards Herrañ liet Verkameñ leigia um̄ ellepta Stund/ Matth. 20. eñ sydar ecke. Veit eg ad Gud hepr mørgum i Andlætenu myskunad/ z hn̄ myskunar øllū s hn̄s Nadar leita/ eñ þar munu Dæmeñ pærre vera/ ad sa hape snwed si ap Hiarta til Guds i Andlætenu/ sm̄ hn̄ porsmæd hepur alla Æpe syna. Spamadureñ seiger i Textanū : LEited DRottens medañ hañ er ad piña/ kalled a hn̄ medañ hn̄ er Nalægur/ so sm̄ giøre hn̄ Rad fyrer þvi / ad sw Tyd kuñe ad koma/ ad hn̄ læte sig ei leingur piña/ ad hn̄ vilie ecke framar vera Nalægur/ ad hn̄ vilie ecke heyra þott vier margfalader sieū/ z wtbreidū badar Hendur vorar/ Es. 1. ad hn̄ iñeloke sig i einu Skye s eingeñ Bæn kiemst i giegnū/ so sm̄ Jeremias ad Orde kiemst/ Thren. 3. O Guds Børn/ lætū oss/ lætū oss ecke byda epter þre Tyd/ hver veit nær hun er? hver veit nær Mæler Syndaña er uppfylltur? hver veit

nær Høfud-Eingelsiñs Lwdur kvedur vid i Skyū Himens? Snwed ydur þvi til Drottens Vnger z Gamler/ Ryker z Fatæker/ Volldug er z Vesæler/ þa mun hñ myskuna oss/ z til Guds vors/ þvi hia hønum er mikil Fyrergiefning. Eingeñ Hlutur er hm̄ Omattugur/ Luc. 1. So er z eingeñ Mæler hñs Myskunar/ fram hñs Kniam hefur eingeñ synelande fared/ sm̄ hñs leitad hefur med Angre z Trega. So fliott sem David jatade Afgiørd sijna/ so fliott liet Drotteñ seigia hønū/ Gud hefur þijna Synd i burt teked/ 2. Sam. 12. Manasses stynur ecke fyrr i bøndunū/ 2. Par. 33. eñ ad hñs Misgiørder eru fyrergiefnar i Himnenū. Miñ Herra JEsu/ þu sagder Fordū vid Simon/ Luc. 7. Þeim sm̄ lijted er fyrergiefed/ hñ elskar lijted. Herra/ þar er eingeñ af oss sm̄ hier liggū a þiñe Fotskør ȯ lijted er fyrergiefed. Mørg Tiju Þusund Punda eru oss uppgiefeñ hinū versta Skullda Þrioolū. Herra/ ef þ er mogulegt/ þa gief oss ad vier elskū so miked/ sm̄ oss er tilgiefed. Vier erū fortapader Syner/ sm̄ hofū sooad vorre Fødurleyfd/ eñ leitum þo aptur til Fødur Hwsa/ Luc. 15. Drotteñ þu hefur ruñed a Veg f oss og breidt wt þiñ Fadm a moote oss/ þu hefur mætt oss a midre Leid og teked Fagnande i moote oss/ Lat oss þvi alldrei gleyma/ z alldrei verda i so frafleitt Siñe yfergiefna/ ad vier hverfū burt aptr til ad eta Draf med Svijnū/ helldur ad oss smackest so þijnar Vister/ þijner Vxar og aled Fe/ Luc. 14. er þu tilreider oss hier i Nadeñe/ ad vier meigū sitia til Bords mz Abraham/ Isaac og Jacob i Dijrdeñe/ Matth. 8.

Vanheir þad goode Gud fyrer JEsu Christi

Forþienustu/ Amen.

# Fioorda Suñudag Epter Paaska.

Gudspialled/ Joh. 16. Cap.

JEsus sagde til sijña Læresveina. Nu fer eg til hañs sem mig sende/ og eingeñ af ydur spyr mig ad/ Hvert fer þu? Helldur af þvi ad eg talade þta til ydar/ þa uppfylltest ydar Hiarta af Hrygd. Eñ eg seige ydur þo Sañleikeñ/ ad

ad þad fare ydur/ ad eg fare hiedañ. Þvi ef ad eg fer ei i burt hiedañ/ þa kiemur eige Huggareñ til ydar. Eñ ef eg fer i burt hiedañ/ mun eg senda hañ til ydar. Og þa ed hañ kiemur / straffar hañ Heimeñ um̃ Syndena/ og um̃ Riettlæted/ og um̃ Doomeñ. Um̃ Synd ena/ af þvi þeir trwdu ecke a mig. Eñ um̃ Riettlæted/ þviad eg fer til Fødursins/ og epter þad siae þier mig ecke. Eñ um̃ Doomeñ/ þvi ad Hofdinge þessa Heims er dæmdur. Eg hefe eñ nu margt ad seigia ydur/ Eñ þier kuñed ecke ad siñe ad bera þad. Eñ nær ed sa Sañleiksins Andeñ kiemur/ þa mun hañ kieña ydur allañ Sañleik/ þviad hañ talar ecke af sialfum sier/ helldur hvad hañ heyrde/ þad talar hañ / og hvad epterkomande er/ þad kuñgiører hañ ydur/ hañ same mun og auglysa mig/ þviad af mijnu mun hañ þad taka og kuñ giøra ydur. Allt hvad helldst Fadereñ hefur/ þad er mitt. Þar fyrer sagde eg ydur / ad af mijnu mun hañ þad taka/ og kuñgiøra ydur.

# Exordium.

Eg mun bidia miñ Fødur seiger Endurlausnareñ/ Joh. 14. Og hañ mun senda ydur Eiñ aññañ Tals-Mañ/ hañ er blyfe hia ydur Eylijflega/ Anda Sañleiksins/ hvern Heimureñ fær eige medteked/ þvi hañ sier hañ ecke/ og þecker hañ ecke/ eñ þier þecked hañ/ þvi hañ mun blyfa hia ydur og i ydur vera. Lærefveinar Herrans voru Sorgbitner af þvi ad hañ sagde þeim fyrer syna Burtfør til Fødursins/ Joh. 15. So sem vier strax heyrdum af Evangelio. Eñ til þess ad þeir skylldu ecke allt Ofmiøg sturlast þar af / þa gaf hañ þeim þetta blessada Fyrerheit/ hvert hañ efnade strax epter sijna Himnafør/ þar hañ sende Heilagañ Anda yfer þa med miklum Krapte og Undrunum/ Act. 2. Er fylgde þeim æ sijdañ i øllum þeirra Embættis Utrettingum / Og fañ hiñe Þriedu Guddoomsins Persoonu eckert Huggunarsamligra Nafn ad giefast eñ þetta/ ad hañ sie vor Tals-Madur/ Rom. 8. þvi ef Gud er med oss hver er þa a mote oss? seiger Postuleñ. Eñ ad H. Ande sie Gud/ ber Skijrneñ vor lioosast Vitne um̃ hvort eige være þar til ønnur Røk/ þar vier verdum i hñs Nafns skijrder æsamt Fødur og Sonar/ Matth. 28. Hañ er vor Tals-Madur i Hørmungunum/ þvi hañ kieñer oss ad fyrer þær byriar oss iñ ad gaanga i Guds Rijke/ Act. 14. Vor Tals-Madur i vorum Veikleika/ þvi hañ ber vorum Anda Vitne um̃ ad vier sieum Guds Børn/ Rom. 8. Vor Tals-Madur hia Gude / þvi hañ bidur fyrer oss med Oumrædeligum Andvørpunum: Vor Tals-Madur i þvi ad undervijsa oss/ þvi hañ leidet oss i allañ Sañleika: Vor Tals-Madur i Efasemdeñe er oss optliga hender / Søkum vors Overdugleika / þvi hañ er Pantur

vorrar

vorrar Arfleifdar / Eph. 1. Eñ so sem þad ad Einum Tals-Manne heyrer ecke
all:ina til ad forsvara og afsaka þañ er hañ ad sier tekur/ og Hughreysta hañ og
undervijsa hverneg hañ skule haga sier fyrer Doomaranum edur sijnum Herra /
helldur og er þad hañs Embætte / ad mootstanda hañs Ovinum / og ad sañfæra
þa sem a moote mæla/ So er þad og heilags Anda Verk/ ecke alleinasta ad hugga
Guds Børn/og leida þau i allañ Sañleika/helldur og ad straffa og byrgia Muñ
eñ a þeirra Ovinum. Þetta Embætte H. Anda er iñefaled i þeim Ordum / er
Guds Sonur talar hier i Evangelio/ ad hañ mune straffa Heimeñ um̃ Syndena
og um̃ Riettlæted og um̃ Doomeñ: Og fyrer þvi ad þau þykia ecke so audskileñ/
Þa vil eg læta þad vera Iñtak miñar Einfalldrar Rædu i þetta Siñ ad wt-
skyra þau. DROTTENN hiælpe þar til med Nad sijns Anda I JESV
Nafne / AMEN.

## Vtleggingeñ.

NAEr hañ kiemur mun hañ straffa/ edur Sañfæra Heimeñ um̃ Synd-
ena/seig:s Endurlausnarin. Eingeñ Efe er a þvi Br. M. ad þetta
sie ad skiliast um̃ hina stooru Vantrwareñar Synd hver ed drottnade i
Heimenu framar Ventu a Niervistar Døgũ vors Lausnara: Eg sege
i Heimenum/ þad er i Vantrwareñar Børnum/ Eph. 2. Svo ad bæde
Gydingar og Heidingiar voru under þessare Synd/ þar Gydingar Osk-
udu Teikns seger Paull/ 1. Cor. 1. Eñ Gricker (þad eru Heidingiar)
leitudu ad Speke/ hiner villdu ecke trwa nema þeir sæe Teikn z Stoor
merke/ og þoott þeir mørg sæe/ Oskudu þeir samt Teikns af Himne.
Þesser leitudu ad Speke og meintu ad þeir med Natturuñar Skilninge
feinge griped hiñ Orañsakanliga Guddoomsins Dyrdar Liooma/sem
uppfyller bæde Himen z Iord/ hvern Guds Son: var sendur til ad op-
iñbera. Eñ fyrer þvi ad hañ vard Gydingum ad Hneixlan/ eñ Grickium
ad Heimsku fyrer þeirra Vantrwar saker/ þa var heilagur Ande wt-
sendur til ad sañfæra Heimeñ um̃ þeñañ Guds Sañleika. Ad þetta so
eige ad skiliast/ er Deigenũ lioosara af Orsøkeñe er Drotteñ færer hier
til/ sem er þesse: Af þvi þeir trwdu ecke a mig. Nañ talar um̃ þetta so sem
eiñ undañfareñ Hlut/ eñ þa var allareidu komed ad hañs Burtfør til
Fodursins. Nu er þad kuñugt hversu lioos er ad voru Spadoomarner og
Ritningarnar sem af hm̃ voru/ hveriar hañ baud þeim̃ ad rañsaka/ Joh.
5. samt villdu þeir ecke læta hañ drottna yfer sier. Þeirra eigeñ Sende-

Meñ

Meñ bæru Vitne um̄ ad alldrei hefde nockur Madur talad ſo ſm̄ þſſe talade/ Joh. 7. Þo ſøgdu þr ad hn̄ Gudlaſtade/ þeir ſæu hn̄s Krapta verk/ og jatudu ad eingeñ kyñe þvilijkt ad giøra/ nema Gud være med hønum/ Joh. 3. ſamt bæru þeir ſier þa Ohæfu i Muñ ad hañ være Samverſkr z hefde Diøfuleñ/ Joh. 8. Þeir høfdu fyrer Augunū hn̄s allra heilagaſta Lijfferne/ þo kølludu þeir hn̄ Ofneytſlu Mañ z Vijn ſvelgiara/ Vin Tollheimtumaña og Berſyndugra/ Matth. 11. Þeir kuñu ecke ad ſtraffa hn̄ um̄ nockra Synd/ Joh. 8. Þo kløgudu þr hn̄/ ſo ſm̄ hañ ed fraſnere Foolkenu z bañade ad giefa Keyſaranū Skatt/ Luc. 23. Þeſſe var ſw Gudlauſa Vantrwareñar Synd ſm̄ Jeſus hier um̄talar/ hun verdur og a Stundū kollud Synd i Ritninguñe framar ødrum Syndum. Vm̄ Jeroboam ſtendur offda i Konga Bookunum/ ad hañ hafe komed Iſrael til ad ſyndga/ 1. Reg. 12. Þad er til Vantrwar z Afguda Dyrkanar: ef þier værud blinder (ſeiger Lauſnareñ vid Gydingana) þa hefdud þier ecke Synd/ eñ nu þar þier ſeiged vier ſiaū/ þa blijfur ydar Synd / Joh. 9. Hvar eige kañ añad meint ad vera eñ Synd Vantrwareñar/ þvi þ͛ utañ hana høfdu þr þo margar Synder/ Ja/ þſſe er ſw hrædelega Synd er hn̄ um̄talar/ Joh. 15. 22. 24. Hefde eg ecke komed z talad til þra þa hefdu þr ecke Synd/ eñ nu hafa þr ecke þ þeir kuñe ad ſkijla Synd ſiñe med/ hvar fyrer miñ HErra: Þvi hefde þſſe eina Synd i burtu vered þa hefdu all^r hinar afmædar orded. Ja eñ aptur/ hefda eg ecke giørt þau Verk a medal þra ſem eingeñ kañ ad giøra þa hefdu þr ecke Synd/ eñ nu hafa þr ſied þau/ z hata bæde mig z miñ Fødr/ og þta er ſw ſtoora Vantrwareñar Synd ſm̄ øllū ødrū framar Synd kallaſt i Ritninguñe/ hvar fyrer? Þvi ad medañ hun blijfur / blijfa allar adrar. Lækning Sælareñar og allra vorra Meina er alleina ſw Forlijkun ſm̄ Jeſus giørt hefur er hn̄ bar vorar Synder uppa Tried/ 1. Pet. 2. Hver ſm̄ þvi ecke trwer þañ vill Droffeñ ad H. Ande ſañfære/ þviad mz þvi ad trwa riettelega a hn̄/ verda allar adrar Synder i burtu tekn^r/ vill hn̄ þvi ad Heimureñ verde ſañfærdur um̄ þſſa einu Synd/ þviad þ͛ hana eina verda allar hinar

bundnar z apturhalldnar/ pad giører JEsus bert/ Joh. 3. Seigiande: Sa sim ecke trwer/ hñ er þegar dæmdur/ z aptur seiger hñ i sama Cap. Sa sem ecke trwer Synenū/ hñ mun ecke sia Lijfed/ helldur blijfur Guds Reide yfer honū. Jm eñ framar/ Ef þier ecke trwed þui ad eg sie/ þa munud þier deyia i ydar Syndum/ pad er/ ad eg sie Lioos Heim-sins/ so sim hñ hafde skomu ædur um̄ sig vitnad / Joh. 8. Simed hier Br. M. ad Vantrwen er ein Høfud Synd/ og øllum ødrū meire. Og er nu audsært hier af ad hun er sw Synd er DRottenn um̄talar hier i Evangelio / og þoott ecke være ansad til Vitnis hier um̄ / þa eru þau Vndur z Stoormerke er H. Ande byrte m3 siñ Guddooms Krapt und-er eins og Sakleyse/ Almætte og Guddoom Christi/ strax epter hans Himnafør/ til ad sanfæra Heimenn um̄ þessa skielfelegu Vantrwarenar Synd/ edr hvad sijnest ydur um̄ hina miklu Raust er kom af Himne so sim þiootande Stormvidres/ og fyllte upp Hwsed þar Postularner inne voru/ um̄ þær Elldligu Tungur er settu sig yfer sierhvern þra/ um̄ þau adskilianligu Tungumaal er þr tøludu epter þui sim H. Ande gaf þm̄ wt ad tala/ Act. 2. Seiger ecke Lucas/ Ad þr ed þ heyrdu hafe vordeð fra sier numder z Tøfraader/ seigiande hoer vid añan: Hvad er þetta? Hvad virdest ydur um̄ hina fyrstu Predikun St. Peturs/ er hñ giørde i sama Siñe? Hverneg hñ sagde þm̄ ad JEsus af Nazareth hefde od-last Anda Fyrerheitesins af Fødurnū og wthellt þui er þeir þa sau og heyrdu/ og hverneg ad þr skæruft i sijnū Hiørtum er þeir heyrdu þetta og søgdu: Gooder Brædur/ hvad skulū vier giøra/ seiged mier/ Var ecke þra ad sanfæra þa um̄ hina hrædeligu Synd/ ad þeir høfdu ecke trw-ad hm̄/ helldur Krossfestu Høfdingia Lijfsins? Ad eg tale ecke um̄ øll þau Vndur z Jardteikner er fylgdu Christne Bodenu i þa Daga/ so ad hiner Grimu Heidingiar sem voru an Guds i Heimenum/ Eph. 2. Geingu DRottne til Handa og medtooku hans Vitnisburd. Þui hrosar Paall/ seigiande: Eg hefe allt fra Jerusalem z þar um̄ kring/ allt til Illyricum fullkomnad Evangeliū Christi/ Rom. 15. Nu þoott ad þra sie eigenleg Meining Lausnarans i þssū Ordū sim nu hefe eg sagt

ſagt og ſyꝺnt med nockrum Rokum/ þa eigū vier þo ad vita/ B. M. ad þta Embætte H. Anda nær eiñig til vor/ þvi Frelſaren̄ ſagde vid þa/ ad þſſe H. Ande ſkyllde vera hia þm̄ Poſtulega/ Joh/ 14. En̄ þeir eru fyrer laungu konner til Hœgldar Drottens/ ſamt hefur Gud ecke yfer gief ed ſyna Chriſtne/ þvi eigū vier en̄ nu ad leita ad hm̄ i hn̄s H. Orde ſ̄ i fyrſtun̄e var predikad ad hm̄ ſamverkanda ⁊ ſtyrkianda med epterfylgiande Teiknū/ ſeiger Marcus/ Marc. 16. Hvert hn̄ er en̄ nu ecke vidſkila orden̄. O hverſu værū vier faavyſſer ad þeckia Syndena nema H. Ande ſan̄ſærde oſſ þar um̄ i Guds Orde/ ia en̄ þa epter ꝥ vier hafum lært vorn Chriſten̄doom i Barnalærdoomenū/ þa køllū vier margt ꝥ Syndlauſt ad vera ſm̄ þo er ein fordæman̄lig Synd ꝼ Gude/ ef han̄ vill i Doom vid oſſ ganga/ ⁊ þar ad auke þa maa ꝥ kun̄ugt vera/ hverneg ad Chriſten̄domenū er almen̄eliga hættad Man̄a a mzal/ ꝥ ſumer kalla ſig vel chriſtna ef þr trwa a Gud/ og þvi ad Chriſtur hafe pyꝺnſt fyrer Synder Heimſins. En̄ St. Jacob helldur ꝥ langtum ødruvyſſe/ þar hn̄ ſeiger: Ad Truen̄ ſie daud aan Verkan̄a/ Jac. 2. Nu ef ſu Trw er daud ſm̄ ad ecke verkar fyrer Kiærleikan̄/ Gal. 5. ſo ſm̄ Paulus giør er Raad fyrer hin̄e ſømu Trw/ er ꝥ þa ecke Vantrw? Ja i San̄leika/ hun er Vantrwn̄e verre/ þvi ſu Trw af hverre Maduren̄ alleina þecker Gud/ og veit ad hn̄ er bæde goodur / og þo under eins Rietſlaatur/ en̄ forſmaaer þo hn̄s Vilia/ og ecke aaſtundar ad læra hn̄/ ſo hn̄ ad min̄ſta koſte þeckia meige hvad langt ad hn̄ ſie fra þvi ad hn̄ giete hm̄ Fullnæiu giørt/ hun hialpar meir til ad fordæma ein̄ helldur en̄ Sæluhoolpen̄ ad giøra/ þvi ad Dioflarner trwa þvi eiñeg/ ⁊ ſkielfaſt þar af ſeiger S. Jacob/ Jac. 2. En̄ ſeiged mier/ hvar a holldlegur Madur ad faa ſlyka Þeckingu nema hn̄ ſan̄ſærdur ſie þar um̄ af H. Anda? Petur ſeiger til Safnadan̄a i Aſia/ Þier foorud aller villt ſm̄ Sauder/ en̄ nu erud þier um̄hverfder til Hyrders og Biſkups Sæalna ydar/ 1. Pet. 2. Med hønum tekur Paulus under/ ſeigiande: Þier vorud Myrkur til forna/ en̄ nu erud þier Lioos i Drottne/ Eph. 5. Hvar ꝼ munde þad ſkie nema ꝼ Verkan H. Anda ſ̄ bioo i Ordenu ⁊ ſtraffade Heimen̄ um̄ Syndena.

 Hollb

